# LIFANDE IMYND

Svo vel
Guds Heima-Mañа i hañs Naadar-Rijke hier aa Jørduñe.
Sem og eirneñ
Sam-Borgara þeirra Heilögu i hañs Dijrdar-Rijke aa Himnum.
Auglijst og fyrer Siooner leidd i Einfalldre

# Lijk-Predikun,

Ut af Psalme Davids XV. v. 1. og 2.
Þegar Framlideñ Lijkame Þess

## Vel-Edla/ Hm Æruverduga og Hålærda Herra/

# Sal. MAG. Jons Arna-SONAR.

Fordum SUPERINTENDENTIS yfer Skaalhollts-Stipte,
BLESSADRAR MINNINGAR.
Var med Soomasamlegre Lijk-Filgd lagdur til sijns Sijdarsta Legstad-ar iñañ Skaalhollts Doom-Kyrkiu þañ XIIX. Februarij,
ANNO M. DCC. XLIII.



Af

## Sr. Vigfusa Erlendssyne / Doomkyrkiuñar Preste

ad Skaalhollte; Nu Vel-Æruverdigum Profaste i Arness-Þijnge.

Þrickt aa Hoolum i Hialltadal, Af Halldore Eriksyne, 1748.

IMPRIMATUR,

Halldor Brynjolfsson.

Superintendents. Hol. St.

# Vel Edla / Gud Elskande og Margdygdum prijddre HØFDINGS MATRONÆ

# Frw Gudrunu Einars-DOOTTUR/

Þess Fordum

Vel Edla / Hm Æruverduga og Hålærda Herra/
Nu hia Gude Sæla og Blessada.

# MAG. Jons Arnasonar/

SUPERINTENDENTIS yfer Skaalhollts-Stipte,
LOFLEGRAR MYNNINGAR.
Epterþreyande Eckiu.

## Mine Hatt-virdande Elskulegre Velgiørda Moodur.

Er Epterfylgiande Stutt og Einfølld Lijk-Ræda, med Hiartanlegre Osk rijkuglegrar Blessunar, og Krøptugrar Hugsvølunar, af Gude vorum Fødur, og DRottne JEsu Christo i Krapte H. Anda,
Audmiwklega dedicerud og Tilskrifud.

Af
Vel Edla Hustruarennar
Skylldugasta Þienara
og
Fyrerbidiara til DRottens.

Vigfwsa Erlendssyne.

# PROLOGUS.

NAd, Fridur og Blessan hins eilijfa og Alvallda Himens og Jardar DRottens; Hvør ad er Fader Myskunsemdaña og Gud allrar Huggunar: 2. Cor. 1. v. 3. Millderijk Fyrer-boon og Saaluhiaalplegur Forþienustu Kraptur hañs kiæra Sonar, vors æstwdlegasta Endurlausnara JEsu Christi; Sa sem Daudañ Deyiande deydde eñ Lijfed og Odaudlegleikañ i lioos leidde: 2. Tim. 1. v. 10. Glederijk Hugsvølun og Giædskufull Naadar-verkan þess Verduga H. Anda, vors ædsta Huggara; Sem er Pantur vorrar Arfleifdar: Eph. 1. v. 14. Gledie og Endurnære, styrke og vardveite allra ydar hier samañkomeña Guds blessadra Barna, Saaler og Samvitskur, Hiørtu og Hugskot, Svo vel i Medlæte sem Mootlæte, i Lijfe og Dauda; Phil. 4. v. 7. Jaa, allt iñ i eylijft Lijf, Amen! J JESU Nafne! Amen.

## Elskuleg Guds Børn og Astviner JESU Christi!

PAd er Oraskanleg Von og Vijsa hins Vollduga Himens og Jardar DRottens, hins Millderijka og Medaumkunarfulla Myskunsemdaña Fodurs; Ad hañ Blessadur leggur ætijd einhveria Lijkn, med sierhverre Praut siña Elskulegra Barna; Sem med øllum Riette ætte og mætte knyia þau til þess, ad taka med baadum Høndum, Hiartanlegs Packlætes og H. Poleñmæde, að moote þvi sem hin eilijfa Giædskañ vill vera laata, Og vid þau frañkoma, hvort það er helldur Surt edur Sætt, Medlæte edur Mootlæte, Lijf eda Daude. Pad voru vijst harder Koster, sem H. David voru fordum setter af haalfu DRottens, til Straffs og Hegningar fyrer hañs Misgiørd; Po þookte þeim ægiæta Guds Astvin það best afraaded, ad eiga med Poleñmæde og Packlaatu Giede, Under þvi sem Gude þocknadest a hañ ad leggia: Laatum oss (Sagde David) Falla i Hendur DRottens; Pvi hañs Myskunseme er stoor. 2. Sam. 24. v. 14. Meñ taka þvi ætijd vel sem kiemur fra Hende Vina þeirra, þott ecke sie það ad øllu lei-

te so þægelegt sem þeir añars æskia villdu, og kalla: Ad Viliañ sie fyrer þeim ad vyrda: O! hversu miklu framar ættum vier christner Meñ, ad taka þvi alldrei ödruvijs, eñ audmiuker og hlijduger, þoleñmooder og þacklaater, sem hiñ eilijfa Giædskañ vill laata oss til Handa bera? Jafnvel þott þad þike þungar Alogur voru syndum spillta Edle og fordiarfadre Hollds Natturu; Hverra Siñe ad er Reide og Fiandskapur i giegn Gude; Rom. 8. v. 7. Og vill alls kostar hafa sig undañ þeigid, ad snerta þad blessada JEsu Kroßburdar-Ok, med sijnum miñsta Fijngre.

Eingiñ vill oss betur helldur eñ hiñ mikle miskunsemdaña Fader, sem elskade oss so heitt, Þa vier vorum hañs Oviner: Ad hañ þyrmde ecke sijnum eigenlegum Syne, helldur gaf hañ ut fyrer oss alla, og er eiñig ætijd boden og buen til ad giefa oss med honum alla gooda Hlute; Rom 8. v. 32. Hañ sem med utbreiddum Ørmum Myskunareñar, Og opnudu sijnu Elskurijkasta Fødurs Hiarta, lætur sier ecke leidast ad draga oss þraalaata Syndara til Ydrunar og Yferbootar, med siñe obreittre Þoleñmæde og oteliande Nærdar Velgiordningum, Ja, med Medlæte og Mootlæte; So vier aumer Vesælingar meigum daglega þreifa a þvi ad aller Veiger og øll Verk DRottens eru ecke añad, eñ Myskun og Sañleike øllum þeim sem hañs blessud Bodord og Vitnisburde geima: Psalm. 25. v. 10. Eingeñ veit betur hvad oss er fyrer bestu eñ hañ sem þecker grant vora Skepun; Hverium þad til Hugar kiemur, ad vier erum Dupt og Aska, Psalmenum 103. v. 14. Þegar Mooduren sier, ad Barned er giefed fyrer vondu Giaalijfe, og hefst þad ad, sem ecke soomer; Þa tekur hun Vøndeñ og hyrter þad, So þad skule aflaata og betra sig: Þañ eñ breiter hin eilijfa Giædskañ vid oss þraalaata Syndara, og þverbroteñ Born, Esa. 1. v. 2. Þegar Guds skiærasta Alvitsku Auga, sem giæter ad ollu Mañaña Athæfe, og kañ ad rañsaka Hiørtun og Nijrun, Jer. 17. v. 10. Sier, ad vier nidur sockner i saurugar Holldsins Vellystingar og syndsamlegt Veralldareñar Giaalijfe giørunst toomlaater i þvi ad adhyllast Gud og verka vora eigeñ Saaluhiaalp med Ugg og Otta, Phil. 4. v. 12. Þa aumkast þad medaumkunarsama Moodur-Hiarta DRotteñs, yfer vorum yfervofande Saalar Haaska; Hañ tiptar oss ad vier Fyrerdæmunst eige med Heimenum: 1. Cor. 11. v. 32. Hañ lætur oss kieña a Svipu Hyrtingareñar, So vier lærum med sonarlegre Audmykt, sundurknosudu Hiarta, Og alvarlegre Umvendun, ad leita oss Trausts og Lijknar, Ad Footum hañs Myskunar, og Lijtelæckum oss under hañs volldugu Hønd: 1. Pet. 5. v. 6. Hañ giefur oss ad smacka Malurt Mootlætesens, so vier faaum Vidbiood a Vellystingum Heimsens, eñ laatum oss med breñande Gyrnd og alvarlegre Bæn langa til Himensins; Ad vier laatum þad vera vorn Mat og Dryck, ad giora Vilja vors himneska Føðurs, Joh. 4. v. 34. Ad vier virdum ei lijtels Tiptan DRottens, nie orvijlnunst nær vier verdum af honum agader, helldur huggum oss þar

vid: Ad hvorn þañ Son sem Faderen elskar, þañ agar hañ; Og hvꝛt þad Barn sem hañ ad sier tekur, þad hyrter hañ, Ebr. 12. v. 6. O! hvad sæler eru þeir, sem med slijku Hugarfare kyssa a hyrtingar Hriis hins Almattuga? Þeir plocka af þeim hvössu Þyrne=Broddum Mootlætesens, hañ fagra og fridsamlega Avoxt Riettlætesens, Ebr. 12. v. 11. Þeir kañast med Glede vid hañs Elskuriika Fodurs=Hiarta, midt i þvi þau siña til hañs Hyrtingar, og undertaka med David: Fyrer goodu vard mier þad, DRotteñ miñ! Ad þu Lijtelæckader mig, so eg lærde ad þeckia þijna Vegu, Psalm. 119. v. 71. Hvijlijk er þa Faasiña vorrar Syndumspilltrar Natturu christner Meñ! Þa vier moglum a moote so goodum og Saaluhialplegum Guds Vilia? Meñerner laata opt fylgia litla Lijkn med þvi sem þeir aleggia, og er þvi ecke ad undra, þott þeir sieu a stundum grunader um Giædsku, og þad þyke hardt, ad liggia under þeirra Alogum; Eñ þvilijkum Afarkostum er ecke ad kvijda hia Fodur Myskunsemdaña og Gude allrar Huggunar: Hañ blandar alldrei fyrer Born sijn blessud og Elskuleg so beiskañ Bikar Hormungareñar, ad hañ giefe þeim ei under eins ad smacka a Himneskru sætleiks Vijne Glede og Hugsvolunareñar: Þegar Neydeñ er sem nærst til ad hryggia og særa, þa er hañs Fodurleg Naad og Medaumkan hvad nærst, til ad gledia sijn Born og græda: DRotteñ hañ hugsvalar þeim i Hormungunum; Hañ æliitur þa Naadarsamlega sem naudstadder eru og gledur hinar sorgbitnu Saalernar, Jer. 26. Þegar Guds Barna Hiarta i Heimenum er hvad mest, sundurmared under Mootlætesins Pressu, og hartnær Helstunged af bitur=Eggiudum Angistareñar Brodde; Þa sundurbrestur hvad iñelegast og nakvæmast Fodurs Hiarta Almattugs Guds i Himnenum, af Astudlegustu Elsku, Millde og Medaumkan yfer þeim, Til ad fyrergiefa þeim allar þeirra Synder, til ad græda þeirra Meinsemder; Ad frelsa þeirra Lijf fra Fordiorfuneñe, og Corona þau med Millde og Myskunseme, Psalm. 103. v. 3. 4. Þar fyrer, Elskulega Guds Barn! Ef þier þyker sem hin eilijfa Giædskañ hafe snortad þig med Hende siñar Hyrtingar; Þa laat þad þrijsta þier til, ad kyssa a hana med H. Poleñmæde, ad midt i Hrigdeñe myñest DRotteñ a Myskunsemena: Hab. 4. v. 2. Hañ er jafntamur a badar Hendur vid Born sijn blessud og Elskuleg, gierande bæde ad særa og græda, sundursla og lækna, Lijfga og Deyda, Job. 5. v. 18. Laat þad vera þijn bestu Urræde og ædsta Ynde, þegar Hond Guds liggur þungt a þier; Ad upphefia þijnar Bænar Hendur i Himiniñ til hañs, um Hiaalp og Hugsvolun i Hornum þijnum, seigiande med David: DRotteñ! Heyr þu Rodd miñar Grætbeidne og Myskuna mier nær eg kalla til þijn, nær eg upphef mijnar Hendur til þijns H. Kors: Psalm. 28. v. 2. Gef þig faungeñ under Guds Naadar Vilia, med audmiukre Hlijdne, og varpadu allre þiñe Ahyggiu uppa hañ med oruggu trunadar Trauste, 1. Pet. 5. v. 7. Og munt þu þa komast ad Raun um þad; Ad gott er ad falla i Naadar=Hendur DRottens; Hañ er Almattigur

og

og kañ ad Hiaalpa; Þvi vier eigum þañ Gud sem Hiaalpar, og þañ DRottEñ DRotteñ sem af Daudanum kañ ad frelsa; Hañ sem er Fader Fodurlausra og Doomare Ecknaña, Psalm. 68. v. 6. Hañ er Alvitur og veit ad Hiaalpa: DRotteñ reiknar siña Barna Flotta, og heller þeirra Taarum i sijna Flosku; Hañ aalijtur þeirra Eymd, og þecker þeirra Saalu i Neydeñe, Psalm. 31. v. 8. Hañ er Giædskurijkur og Myskunsamur, og vill Hiaalpa; DRotteñ er nalægur ollum þeim sem hañ Akalla, ollum þeim sem hañ i Anda og Sañleika Akalla; Hañ giører þad, hvad hiner Gudhræddu gyrnast, heyrer þeirra Kall og hiaalpar þeim. Psalm. 145. v. 18. 19.

Þar um er Sioon Sogu rijkare, Elskuleg Guds Born, hvorsu hryggelegt Sorgar-Efne, ad Fader Myskunsemdaña hefur epter sijnum blessudum Naadar Vilia, lated oss nijlega til Handa bera; Þar hiñe Eilijfu Giædskuñe þocknast hefur fyrer Tijmañlegañ Dauda, ad taka i burt fraa vorum Hofdum, þessa Hwss og Stiptes Andlegañ Fodur, Forsvar og Coronu: Jeg meina Vel-Edla, Haa-Æruverdigañ og Haa-Lærdañ Hr. Biskupeñ Saal. Mag. JON ARNASON Blessadrar Myñingar, hvors Andvana Lijkama vier hofum nu med tilbærelegre Virdingu, lagt til sijns sijdasta Legstadar i þessu Guds Hwse, takande oss med ollum Riette þau somu Ord i Muñ med Sorg og Harme, sem David Kongur talade Fordum, er hañ gieck epter Lijk-Borum sijns Hers-Hofdingia Abners: Vite þier ecke ad i Dag er fallen eiñ Hofdinge, og hiñ meste Madur i Israel? 2. Sam. 3. v. 31. 38. Jaa, Slijkum Hofdingia hefur Daudeñ fraa oss i burtu svipt, sem med falslausre Gudrækne, yduglequm Bænum sijnum til DRotteñs, og Loflegre Stioornan i sijnu Veglega Embætte, stood svo sem eiñ Mwr-Veggur og Merkes-Madur til Forsvars og Eflingar Guds Christne i þessu Stipte. Æ Vor Hyrder er falleñ! Hvad er þad ad undra þott vier Einmana Sauder sundurtvistrunst? Æ! Hvad biturt Angistar og Sorgar-Sverd særer nu og kremur Hiarta þessa vors Saal: Herra Epterlifande Egta-Hiarta, Vel-Edla, Gud-Elskande og Marg Dygdum prijdda Frw, GUDRUNU EINARS-DOOTTUR, þar DRotteñ hefur eñ aa nij byrlad heñe Dryck med stoorum Mæler noogra Taarafalla? Psalm. 80. v. 6. Hañ hefur svipt hana þvi Besta, Ypparsta og Yndeslegasta, sem hañ Blessadur hafde giefed heñe, af ollum Jardneskum Hlutum, Nefnelega: Heñar Astkiæra Egta-Hiarta; Hvors Vidskilnad hun med graatande Taarum og Sorgfullu Hiarta harmar. O þu Fader allrar Naadar, og Bruñur giorvallrar Hiaalpar og Hugsvolunar! Endurnær heñar, og allra vor hier samañkomeña sorgande Hiortu, med Krapte þiñar Myskunar og Naadar-Verkan þijns H. Anda; Svo sem þier þocknadest, DRotteñ miñ! So er þad skied: Þu gafst, þu tookst aptur i burtu; Vegsamad sie þitt blessada Nafn ad Eilijfu, Job. 1. v. 21. Gott er oss og skal oss þykia ad falla i þijnar Myskunar Hendur, 2. Sam. 24. v. 14. Fraa þier er þetta Sorgar-Efne yfer oss komed; Til

þijn DRotteñ miñ, Leitum vier Hiaalpar og Hugsvolunar, Lijknar og Myskunar i þvi sama: Æ þu milldе Myskunsemdaña Fader! sem so nææfvæmlega hefur lofad, ad vera Fader Fodurlausra og Forsvar Ecknaña, Læættu Himneskt Oleum þiñar heitu Hiarta-Giædsku, Lijfkroptugrar Huggunar og rijkuglegrar Glede, drwpa yfer vors Sæl. Herra Epterþreyande Eckiu, sorgande og sundurkramed Hiarta, sem þier siaalfum þocknast hefur ad særa; Lææt Krapt þiñar Myskunar vera mæættugañ i heñar Breiskleika, so hun med H. Poleñmæde og hlijdugu Giede, take vid þeim beiska, eñ þo Heilsusamlega Krossens Kaleik, sem þu hefur fyrer hana ææskeinkt, Psalm. 16. v. 5. So ad hun sem ein sañarleg Eckia, setie sijna Von ætijd til þijn: 1. Tim. 5. v. 5. Lææt hana jafnañ gledia sig i þiñe Hiaalp, vidhalldast under Vængium þiñar Myskunar, og odlast Blessan af ollum Attum þijns Herradæmis: Gief heñe ad hugga sig þar vid: Ad þesse stutta Sorg og skamviñe Adskilnadur, mune iñañ lijtels Tijma umbreytast i Eilijfa Glede, og Ævarande Indesfulla Sambwd med heñar Hiartkiæra, nu Sæl. Ekta-Herra og heñar Himneska Sæalar-Brwdguma JEsu i þijnu Eilijfa Dijrdar-Rijke; Hvar ed Hrygd og Sorg oll mun hliota i burtu ad vijkia, eñ Eilijf Glede mun vera yfer allra Vtvalldra Hofdum. Esa. 35. v. 10.

O Þu sañe Israels Grædare! Gacktu Munadarlitlum og Sorgande Astvinum ollum, þessa vors Sæl. Herra, i Fodurs-Stad, og uppfyll Myskunsamlega alla þeirra Naudþurft, epter Rijkdoome þiñar Dijrdar: Þu sem ert allra vor Fader, og þad er þitt Nafn fraa Eilijfu, Esa. 63. v. 16. Lijt þijnum Blessudu Myskunar Augum yfer þijna Christelega Kyrkiu i þessu Skaalhollts-Stipte, og legg miwkañ Græde-Plaastur Myskunar þiñar og Fodurlegrar Forsioonar vid þad Sorgar-Saar sem hun hefur nu feinged, med Misser sijns Andlega Fodurs og Forsvars; Vier aller Einmana Vesælingar Grææthænum þig DRotteñ miñ! Snw þier til vor, og vert oss Myskunsamur! Kieñ þu oss ad Hugleida þad vier hliootum ad deyia, svo vier Forsiaaler verdum; Uñ oss ad lifa i Sonarlegum Otta til þijn, Deyia i Sæaluhiaalplegre Trw aa þig, og sijdañ aa Efsta Deige uppriisa til Eilijfrar Dijrdar hiaa þier aa Lande Lifande Maña! A M E N.

# Þau Heiløgu Guds Ord
Sem i Skaalhollts Doom-Kyrkiu voru Einfalldlega wtløgd,
J Soomasamlegre og Sorglegre Jardar-Før,
Þess
Vel Edla/ Hm Æruverduga og Hålærda Herra/
nu i Gude Saaluga.

## MAG. Jons Arnasonar,
Fordum SUPERINTENDENTIS Skaalhollts-Stiptes,
BLESSADRAR MJNNJNGAR.
Standa skrifud i Psalme Davids XV. v. 1. og 2.
Hlioodande sem Epterfylger.

DROTTeñ! Hvør mun bwa i þiñe Tialld bwd? Hvør mun hvijlast uppa þijnu Heiløgu Fialle? Hañ/ sm ed frammgeingur flecklaust/ og giører Riett/ og talar Sañleikañ wt af Hiarta.

# Jñgaungureñ.

HAd sem Heimsens Børnum þyker hvad Verst og Vidurstyggelegast, Sorglegast og Skadlegast, Lætur hiñ Maaduge Gud sijnum Elskulegum og Astkiærum Børnum, verda hvad best og Yndeslegast, Gledelegast og Farsælast; Og er þad ecke ad undra; Þvi þeim sem DRotteñ Ottast, þiena aller Hluter til hins Besta, Rom. 8. v. 28. A medal þeirra Hluta, sem Mañlegre Naatturu rijs

 hvad

hvad mest Hugur vid i Heimenum, er sa i sialfum sier heiske og Ognarlege Nattúrlege Daude, sem gioerer hiñ Sorglegasta Adskilnad a mille þeirra Tveggia kiærustu Astvina, Saalareñar og Lijkamans; Af hvorium bædum Verulegum Portum, sa Alhage Meistare hins merkelega Forvyrkes Himens og Jardar Almattugur Gud, samsette i Ondverdu hañ miña Heim Mañeñ. Gen. 2. v. 4. 7.

Hvorsú þeirre Hugprwdu DRotteñs Hetiu H. Job hafe bløskrad su Ognarlega Daudans Jmynd, nær hañ leidde hana sier fyrer Hugskots Siooner, þad er bert af hañs Poleñmædes-Bookar 18. Cap. v. 14. Hvar ed Job nefner Daudañ Konung Skielfingareñar. Og hvad skal eg auka Søgur uñ þad, sem seigiast ma Deigenum lioosara? Þar er varla so vesol Skiepna skrijdande under Sooluñe, hvørrar Nattúra ecke hrædest fyrer Daudanum, og vilie af fremsta Megne, veriast honum sem leingst hun gietur; Ja, so kvedur hier ramt ad, Guds Børn Elskuleg, ad Lijgeñar Fodur Sathan, sem sialfur iñleidde þetta Ogurlega Skrijmsle i Heimeñ, hefur ratast hier uñ satt a Muñ, er hañ sagde Fordum vid DRotteñ: Hwd fyrer Hwd, og allt hvad Madureñ a, vill hañ gicfa fyrer sitt eiged Lijf, Job. 2. v. 4. Eñ hier er vorden blessud Boot i Maalenu, fyrer øllum syndugum, Eñ þo Sañ-Ydrande; Øllum Veik-Trwudum, Eñ þo Riett-Trwudum; Øllum Overdugum, Eñ þo Audmiwkum; Øllum Breiskum og Vanmattigum, Eñ þo Hræsneslausum og Hrein-Hiertudum Guds elskulegum og blessudum Bornum, sem i Saaluhialplegre Trw a JEsum, i Sonarlegre Elsku til JEsum, i H. Poleñmæde i ollu þvi, sem JEsu þocknast þeim a Herdar ad leggia, kosta Kapps uñ ad lifa i Heimenum, og læra ad deyia i burt wr Heimenum; Øllum þeim, seige eg, er fyrer JEsu Christi dijrmætañ Dauda, sa Natturlege Daude vordeñ, ecke nockur hrædelegur Ovinur, helldur sa beste Astvin, og blijdaste kiærkomeñ Giestur; Ecke nockur illur Skade, helldur hiñ ypparlegaste Abate; Ecke nockur heisk Bølvunar Kvøl, helldur hiñ Sætaste og Sælaste Svefn; Ja, Æskelegasta Endalikt þeirra Eymdafulla og skamviña Lijfs i Heimenum, og Yndeslegasta Uppbyrian og Jñgangur fyrer þau til Oumrædelegrar Himnarijkes Sælu, og þess eilijfa Lijffens a Himnum.

Sa Konunglege Spamadur David, wtmaalar Dauda Guds Elskulegra og Blessadra Barna, med nærsta agiætum og Huggunarfullum Ordum i Psalmenum 116. v. 15. Med þessum Ordum: Daude Heilagra er dijrmætur halldeñ fyrer DRottne. Tvent er sierdeiles i þessum Ordum merkiande:

## I. Hvilijker þeir sieu / hvørra Daude er dijrmætur halldeñ fyrer DRottne.

## II. Hvørs vegna / og hvørneñ hañ sie dijrmætur halldeñ.

1. Hvad

1. Hvad hinu Fyrra viðvijkur, þa seiger David berlega i aður aminnstum Orðum: Að það sieu hiner Heilögu, hvorra Dauðe dijrmætur er fyrer DRottne. Allt eins og það er Onatturlegt, að Menn plocke Vijnber af Pislum, eða Fijkiur af Þyrnum, so sem Endurlausnarenn vor JEsus vottar, Luc. 6. v. 44. Svo er það og einneigenn Omögulegt: Að epter Oguðlega, og i saurugum Holldsins Verkum, og svijvyrðelegum Ranglætingum, Yferbootarlaust afrramdreigeð og utendað Manns Lijf i Heimenum, giete fylgt Saaluhialplegur og fyrer DRottne dijrmætur Dauðe, i burtu ur Heimenum.

Það finst ritað umm eirn Giaalijfesfullann Ungling, sem saa uppa Sætann og Saaluhialplegann Afgang hins Sæla Biskups Ambrotii, að hann hafe liteð til sinna Laxmanna er þar voru og svo nærstadder, og mællt þessum Orðum: O! að eg mætte lifa með yður, enn deyia með þessum Guðs Manne. Oguðlegra Synda-Præla Andvaralaust Lijferne, og Riettlaatra Guðs Barna Yndesfullur og dijrmætur Dauðe, eru Tveir olldunges gagnstæder Hluter, sem ongvu helldur eiga nockurt Ættarmoot samann, enn Ljoosed og Myrkred, Christur og Belial. Að sofa hier i Heime Andvaralaust i Syndunum, i Dalilæ flaaraadum Faðme, Jud. 16. v. 19. Enn uppvakna annars Heims til Eilijfrar Sælu i fogru Abrahams Skaute, Luc. 16. v. 23. Það skalltu Christenn Manneskia i DRottens Nafne, og fyrer Saker þinnar eilijfrar Saalar Velferdar, alldrei leiða þier i Hug, að að giete fylgst, eður hiaa nockrum Adams Niðium Samfara verðeð: Fared ecke Viller Vegar, seiger Paulus, Guð lætur ecke að sier hæða, Gal. 6. v. 7. So sem einn saaer niður, so mun hann uppskiera; So sem einn lifer, so deyr hann; So sem einn deyr, so lijður honum umm Oendanleg Ar Eilijfdarennar: Guðlausra og Ranglaatra Christi Kross Ovina Afdrif, hlioota að vera Fyrerdæmingenn; Og þar umm meiga aller ur Skugga ganga, að þeirra Vegsemd sem Jarðlega eru Sinnaðer, verður Eilijflega til Skammar. Phil. 3. v. 19. O Guð væge oss Vesölum Syndurum i JEsu Nafne! Og vyrðest að stioorna oss með Naadar Krapte sijns H. Anda, til að hugleiða það vier hliootum að deyia, so vier Forsiaaler verða mættumm, Psalm. 90. v. 12. Jaa, so Forsiaaler, að vort Lijf meige vera Heilagt aaliteð, af Foður Myskunsemdanna, og vor Dauðe dijrmætur halldenn fyrer DRottens Naadar Auglite; Hann sem með dijrum Eiðe hefur svared það: Að hann hafe ongva Þocknan a Dauða hins Oguðlega, helldur það, að hinn Oguðlege snwe sier fraa sinne Breitne og life, Ezech. 33. v. 11. Tvofalldur meina eg að sie saa sanne Heilagleike, epter hvorium þu Eilskulega Guðs Barn, sem gyrnest að lifa Guðrækelega i Heimenum, og læra að deyia Saaluhialplega i burt ur Heimenum, skallt styrkur i DRottne og Mætte hanns Kraptar, Eph. 6. v. 10. Af fremsta Megne kieppast, so sem þeim Æðsta og Ypparsta Æru-Title, hiaa hvorium að oll Veralldarennar Vyrðinga Nofn meiga með ollum Riette Endeme og Niðurdrep heita: Nefne eg;

1. TILEINKaðann HEILAGleika, fyrer hvorn skiliast skal og meinast, það

Guddoomlega og Sæluhiałplega, þad Heilaga og Hæ-dijrmæta, þad fullkomna og Eilijfa Forþienustu Riettlæte hins Einasta Sæluhiałpara allra Syndugra Adams Nidia, Act. 4. v. 11. Hins Astwdlegasta og Elskurijkasta Brooðurs og Brwdguma, Os. 2. v. 21. Allra siña Riett-Trwadra blessudu Barna; Hins Mattugasta og Myskunarfulla Naudhiałpara allra siña, under Syndaña og Sorgaña Byrde ormæddu Vesælinga, Matth. 11. v. 28. Guds Eingietens og Elskulegasta Sonar JEsu Christi; Sæ ed oss Rænglætum Synda-Prælum, og af vorum eigeñ Ramleik, til Eilijfra Helvijtes-Kvala siałf-dæmdum Saka-Moñum, er af Fodur Myskunsemdaña til Vijsdooms og Riettlætes, til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, giefeñ og giordur, 1. Cor. 1. v. 30. Hañ sem med siñe bitru Kvol og Bloodugum Krossens Dauda, hefur frijad og forlijkad, afmæd og burt teked, þa bolvudu Blood-Skulld vorra bloodugu Rænglætinga, og saurugu Syndaña Svijvyrdinga; Pvi lijser Paulus ollum Sañydrande Syndurum til Sæluhiałplegrar Hugsvolunar, med þessum Ordum: J JEsu Christo hofum vier Endurlausnena fyrer hañs Blood, sem er Syndaña Fyrergiefning: Col. 1. v. 14. Hañ sem med sijnu Allra Heilagasta Framferde, og fullkomnustu Flecklausre Hlijdne, hefur ad fullu og ollu bætt og betalad, fyrer vort saurugt Syndaña Edle og Athæfe, fyrer vorn Fordæmingarverdañ Ofullkomlegleika, i ollu goodu, og bolvada Pvermoodsku vorrar Syndumspilltu Natturu, hverrar Vilie er Reide og Fiandskapur i giegn Gude. Rom. 8. v. 7.

JEsus hefur i vorn Stad, Synduger Meñ, Logmaaled uppfyllt, og leist oss fra þess Bolvan, Gal. 3. v. 13. JEsus hefur þad illa sem vier fromdum og giordum, Forlijkad og afmæd: JEsus hefur þad gooda sem vier forsoomum og afrækium, uppfyllt og fullkomnad; So ad ein andleg JEsu Brwdur, hvor ad er sierhver riett-christeñ Sæla, fyrer saña og lifande Trw, sijnum blessudum Brwdguma JEsu Jñlijfud og hvijlande, i utbreiddum Fadme hañs Elsku og Myskunar, under blessudu Kæpu-Lafe hañs fagra Heilagleika, og fullkomnasta Forþienustu Riettlætes, mæ ætijd glod i Gude Heilsugiafara sijnum, Luc. 1. v. 47. Undertaka med Postulanum Paule: Jeg hefe ecke mitt Riettlæte, sem kiemur af Logmaalenu, helldur þad sem fyrer Trwna æ Jesum Christum kiemur: Phil. 3. v. 9. Og med Spamañenum Esaja: Eg gled mig i DRottne, og mijn Sæla er gladvær i Gude mijnum; Pvi hañ hefur klædt mig med Klædum Hiałpræðesens, og medur Mottlenum Riettlætesens klædde hañ mig, lijka sem eiñ Brwguma prijddañ Kieñemañlegum Skrwda, og so sem adra Brwdur, þa er gloðar i sijnu Skarte. Es. 61. v. 10. Jeg kallade fyrer skomu, þetta fagra JEsu Forþienustu Riettlæte: tileinkadañ Heilagleika, og meina þad meige med ollum Riette til Sañs færast: Pesse Heilagleike er oss ecke Brædur mijner! Af Natturuñe eigeñlegur; Pvi vier erum aller Ohreiner, og allt vort Riettlæte er sem añar oþecktar Leppur ad Vitne Esajæ;

Es. 64.

Es. 64. v. 5. Helldur verdur hañ ofs af Naadeñe tilreiknadur og giefeñ : Gud hefur giort siñ Son JEsum ad Synd fyrer ofs, þar hañ visse þo eckert af Synd; Uppa þad vier yrdum i honum, þad Riettlæte, sem fyrer Gude gyllder, 2. Cor. 5. v. 21. Hañ verdur af Gude Trwñe tileinkadur, so sem Paulus berlega vottar, Pil. 3. v. 9. Þesse Heilagleike er ad vijsu ollu syndugu Mañkyne af einskiærre Elsku, og grunnlausre Giædsku Fodurs Myskunsemdaña til Endurlausnar og Saaluhiaalpar fyrer JEsum afrekadur, og framboden; Þvi JEsus er vorden Foorn og Forlijkun fyrer vorar, og ecke einasta fyrer vorar helldur og eirnig allar Veralldareñar Synder; 1. Joh. 2. v. 2. Eñ þo hlioota aller þeir sem þessa JEsu blessada Heilagleika vilia sier til Saaluhiaalplegrar Syndaña Fyrergiefningar og eilijfrar Sælu æskelegustu Hlutteckningar adniioota, þeir hlioota seige eg, ad tileinka sier hañ, og umfadma med Trwñe, ad hallda honum hia sier, og vardveita hañ i sijnu Hiarta, med alvarlegre Bæn og breñande Alvorugiefne i þvi ad laata ongvañ Hlut sa skiled sig fra þeim Guds Kiærleika sem ad er i DRottne vorum JEsu Christo, Rom. 8. v. 39.

Þesse JEsu Heilagleike er sa frij opne Bruñur mote Syndum og Ohreinleika, Sach. 13. v. 1. Sem i JEsu bitru Kvolum og bloodigum Krossens Dauda er uppsprotteñ, Es. 53. v. 8. Sem af JEsu fogrum Forþienustu Fadme, og hañs ætijd opnu Elskurijkasta og Medaumkunarsamasta Myskunar Hiarta, er oaflaatanlega framreñande til Heilsusamlegrar Helgunar og Himneskrar Svolunar ollum Naadarþyrstum og naudlijdande DRottens Vesælingum, 1. Joh. 2. v. 1. & 2. Þaangad ræd eg þier ad flya syndugur Madur! Med titrande og skialfande, med audmiukn og sundurknosudu, med sañydrande og umvendtu Hiarta, hvenær sem þier taka til ad bloskra þau fordæmanlegu Holldsins Verk, og þau vidurstyggelegu Syndaña Saurende; Med hverium þu hefur reitt til Reide hiñ Riettlaata Gud; Moodgad hañ eilijfa Myskunsemdaña Fodur, og fleckad þijna eigen Samvitsku, þier til Straffs og Fordæmingar: Laat þa Alvorugiefne Ydranareñar, og epterlangan Trwareñar, kvaka og kveina i Himeneñ til Guds, i JEsu Nafne, med H. David seigiande, Psalm. 51. v. 1. & 2. Myskuna þu mier Gud, epter þiñe Myskunseme! Og afma allar mijnar Synde epter þiñe stooru Giædsku; Þvo þu mig vel af Misgiord miñe, og hreinsa mig af Synd miñe! Lat þig af Hiarta hrongra og þyrsta i þañ ouppausañlega Bruñ JEsu Elsku og Myskunar; J þañ fagra Bruñ JEsu Forþienustu og Fyrerboonar; Ad lijka sem þad dijrmæta Balsam rañ ofañ af Hofde Aarons i hañs Klæde, Psalm. 133. v. 2. So virdest JEsus ad laata Guddoomlegañ Millde og Medaumkunar, Riettlætingar og Helgunar, Hugsvolunar og Endurnæringar Krapt siñar blessudu Forþienustu, driupa yfer þijna, af Syndunum saurgudu Saal, og bitt under Eimdaña Byrde ormædda Hiarta, so þu meiger siaa og smacka hvorsu sætur og liwfur ad JEsus er; Psalm. 34. v. 9. So þu meiger

iger vera þeſs fulloruggur: Ad hvar ſem Syndeñ yfergnæfer hia þier, þar yfergnæfer þo Naadeñ miklu framar i Chriſto JEſu, Rom. 5. v. 20. Su ed rijke i þier fyrer Riettlæted, til hins eilijfa Lijffins.

Þeſſe JEſu Heilagleike, er ſa ſkijnande hiaalprædeſens Mottull, og þad fagra riettlætes Klæde, under hveriu þu ſkallt audmiukur i Ydraneñe og breñande i Bæneñe, hylia fordæmanlega Bligdan þijns Fatleiſes, Apoc. 3. v. 17. So hun openbereſt ecke fyrer Guds Riettlætes Auga, þier til Eilijfrar Fordæmingar; Helldur ad þu þveigeñ af Syndunum i bleſſudu Lambſins Bloode, og ſkijnande i fegrum Skrwda hañs dijra Riettlætes, meiger ſitiande under JEſu Naadar Vængium upphroopa med Poſtulanum Paule: Rom. 8. v. 34. Hver vill aaſaka Guds Utvallda? Gud er hier ſem Riettlæter: Hver er hañ ſem Fordæmer? Chriſtur er hier ſem daaed hefur; Jaa, miklu helldur ſa ſem uppaptur er vakeñ, hver ad er til hægre Handar Gude, og bidur fyrer oſs.

Saa añarſlags Eigenlegleike, epter hverium þu elſkul: G. B! Att, ad ſamverkande Myſkunar-Krapte DRottens ad kieppaſt, medañ þu under Drottens oþreyttre Poleñmæde, hrekſt og velkeſt i þeſſum vonda Heime, kalla eg ad ſie: 2. JBVANDE HEJLAGLEJKE; Fyrer hvern ſkiliaſt ſkal og meinaſt, þitt fyrer Saaluhialplega Trw til Guds, i hañs Myſkun lifande, fyrer ſaña Elſku a Gud, fyrer hañs H: Auglite verande hræſneslauſt og hreinferdugt andlegt og endurnijad Hiarta og Siñe; Hvert þu Chriſteñ Madur, fyrer naadarrijkt Fulltinge H. Anda, koſter þvi betur Kapps uñ, ſem þu lifer leingur, ad taata i liooſe bæde fyrer Gude og Moñum, med heilogu og raadvondu, Gudrækelegu og Sidſomu Framferde, bæde i Ordum og Athefnum, ad þu afneiter oguðlegu Athæfe og veralldlegum Gyrndum, eñ lifer Riettferdugleg a og Gudlega i Heime þeſſum; Tit. 2. v. 12. Giefande þig hañ veg til þeſs Offurs ſem lifande er og heilagt og Gude þacknæmt, hvert ad er þijn ſkinſamlig Pioonuſta, Rom. 12. v. 1.

Jeg nefne þeñañ ypparlega Guds Barna Heilagleika ibwande; Þvi hañ a ecke ad vera einaſta, lodande a Vorunum, helldur og eiñig lifande og bwande i Hiartanu: Vei þeim ſem naalægiaſt DRotteñ med Vorunum, og heidra hañ med Muñenum, Eñ laata Hiartad vera þar laangt i fra, Eſ. 29. v. 13. Hañ a ecke einaſta ad vera foolgeñ i Ordum, helldur og eirneñ i Krapte; Þvi ollum halfvolgum Hræſnurum vill hiñ Alvitre Gud ſkyrpa wt af ſijnum Muñe: Apoc. 3. v. 16. Hañ aa ecke ad ſkarta einaſta Utvortes fyrer Moñunum, helldur ſkijna hvad fegurſt hid Jñra fyrer Gude; Hver ed hellſt aalijtur Hiartad: 1. Sam. 16. v. 7. Hañ aa ecke ad vera nockur reykande Paanke, ſem fliuge þier i Hug uñ Stundar-Saker, vidlijka og Nabogodonoſor Koninge, Draumur hañs, Dan. 2. v. 5. Eñ falle þier ſijdañ wr Hiarta; Þu hlijtur, Barned DRottens, ad vera breñande og Alvorugieſeñ, ſtadfaſtur og ſtodugur, allt til Enda, i þvi ad ſtunda epter Helguneñe, aan hverrar eingeñ kañ Gud ad ſiaa. Hebr. 12. v. 14.

Þad soomer illa þeim sem bweñ er i skijnande Skart, ad vellta sier med Svijnenu, i Vidurstyggelegum og illalycktande Saurendum: JEsus Christur hiñ Krossfeste og Blessade, hefur kostad Lijfe og Bloode til þess, ad afreka oss Fatlausum Vesælingum, þad Himneska Hialpræde sens Klæde, og þañ skijnande Riettlætesens Mottul; Svo vier i miwkum JEsu Myskunar Ormum hvijlande, mættum vera þess full orugger: Ad lijka sem þad Brwdgumeñ gledur sig yfer siñe Brwdur, so villde DRotteñ vor Gud gledia sig yfer oss, Esa. 62. v. 5. Lætum oss i þess sama JEsu Nafne, þar uñ ydugleg a aminta vera, Christner Meñ! Ad vier gongum ei hlæiande, viliande og vijsvitande til ad ata þeñañ Dijrdlega Skrwda (eda riettara ad seigia: Oss þessum Dijrdlega Skrwda Iklædda) upp wr þvi illalucktande, og bolvada Endeme Syndsamlegra Holldsens Vellystinga, og saurugra Rangslætinga: Vier hofum eitt Siñ umflwed Veralldareñar Saurende, fyrer Vidurkieñingu DRotteñs vors Lausnara JEsu Christi, Eph. 5. v. 2. Alijtum þad ad vera hina stærstu Svijvyrding, hvoria vier lætum ei uñ oss seigiast, so sem Heilogum hæfer, ad vier verdum sijdañ aptur i hin somu vasder og yferuñer, 2. Pet. 2. v. 20.

JEsus hefur af Elsku siñe til vor vesællra Jardar-Orma, læted fletta sig sijnum Bwninge, og alsnakeñ a Krossen uppheingia; So vier þvi skijnande Skarte hañs blessada Heilagleika J-skrijdder, skylldum fyrer Gude, ecke nackter helldur klædder, fundner verda: 2. Cor. 5. v. 3. Lætum Elskuna vora a JEsu, Ja, a vorre eigeñ Velferd þrijsta oss til þess, Brædur mijner! Ad vier JEsu til Hlijdnes og Pockunnar, afleggium fra oss, epter fornre Breitne hiñ Gamla Mañeñ, sem sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsens; Eñ Iklædunst, Endurnyader i Anda vors Hugskots, þeim Nyia Mañe, sem epter Gude er skapadur i sañarlegu Riettlæte og Heilagleika; Eph. 4. v. 22. 23. 24. Þvoum af oss Blette Syndaña, fyrer saña Ydran i JEsu blessudum Bloods Krapte, og tokum oss Daglega Bwnings-Snid epter hinum H. Job: Ad Gudhrædslañ og Riettvijseñ sie vor Klædnadur, hvorium vier J-klædunst svo sem odrum Kyrtle, Job. 29. v. 14. Þeinkium ydugleg a a vora Dauda-Stund, Christner Meñ! A hvorre vier skulum nakter fara i burtu wr Heimenum, lijka sem vier komum nakter i hañ, Job. 1. v. 21. Og lætum slijka Hugleiding verka þad hia oss, ad vier gloovande i Andanum, vesium so ad oss med Hende Trwareñar og Bænareñar JEsu Ha-blessadañ Heilagleikans Mottul, medañ vier lifum; Ad hañ sie vor fegurste Tignar-Skrwde þegar vier deyium, og fyrer DRotteñs Dijrdarlegañ Doom-Stool koma eigum: Sa JEsus sem alsnakeñ, alsærdur, og albloodugur hefur a Krossenum haanged, Syndugu Mañkyne til Saaluhialpar og Myskunar; Veite oss ollum sijnum blessudum Bornum, ad vier þa, Bloodugum Rangslætingaña Ræflum afklædder, eñ blessudum JEsu Riettlætes og Heilagleika Skrwda J-klædder, fundner verdum! JEsus giefe þa ollum þeim, sem sijtande og kveinande hafa seted i svortum Sorgar-Seck vid hañs Nadar-Fætur

tur i þessum dimma Daudans-Dal, ad þeir meige sætt sijngiande, og Sigre hroosande, umskrijdder hvijtu Silke-Klæde Himneskrar Glede, Sælu og Ununar, glediast og fagna i hans forklarudum Dijrdar-Fadme, a Lande lifande Manna; Hvar vier asamt ollum Utvolldum, sem komner eru wr myklum Hormungum og hafa sin Skrwda þveiged i Lambsens Bloode, Apoc. 7. v. 14. 15. & 17. Faaum Eilijflega ad vera frame fyrer Stoole Guds, og þioona honum Dag og Nott i hans Mustere; Hvared Gud mun af-þurka allan Grat af vorum Augum: Eja værum vier þar!

Nu Epterfylger med allra fyrstu Ordum ad minnast a.

## II. Hvørs vegna/ og hvørnenn Heilagra Manna Daude er dijrmætur halldenn fyrer DRottne.

Fiærre fer þvi, ad Daudenn take þad hia sialfum sier, dijrmætur halldenn ad vera: J sinne eigenlegre Natturu, er hann illt Trie, og af Illum sendt; Ecke hefur Gud giordt Daudann, Sap. 1. v. 13. Helldur er hann fyrer Diofulsens Ofund innkomin i Heimenn, Cap. 2. v. 24. Hann er Verdlaun Syndarennar, so sem Paulus vottar, Rom. 6. v. 23. Og er þa varla þess ad vænta, ad eitt roted Trie, fære goodann Avoxt. Ef ad Daudenn være einn umm Hituna vid oss vesæla Jardar-Orma; Pa mætte hann med ollum Riette heita hin Vidurstyggelegaste Ovættur, og ad Vitne eins Heidens Manns hinn skielfelegaste Mootgaangur: Hann er Forvedsla allrar Jardneskrar Glede og fullkomenn Ending hins Natturlega Lijfs; Hann stefner Syndaranum fra Tijmanum inn i Eilijfdena, framm fyrer hinn hrædelega Doom-Stool DRottens; Hvar sierhvør skal odlast, epter þvi sem hann adhafst hefur i Lijkamans Lijfe, hvørt þad er helldur Jllt eda Gott, 2. Cor. 5. v. 10. Hann giorer eins hatt under Hofdenu hinum Volldugasta Magtar-Manne, sem hinum Vesælasta Aumingia; Hann er eins vijs til ad uppræta, og i þau dimmu Jardarennar Ydur til Fornotnunar ad nidurleggia, þau fagur-bloomgudu Ungvide, sem þa þurru og visnudu Fauska; Hann slijtur ann allrar Vægdar einn Astvin wr annars Fadme; Hann gioerer ecke ætijd Bod a undann sier, helldur kiemur hann a Stundum sem annar Ovijsa Vargur, og giefur ecke hina minnstu Toomstund til nockurs Vidurbwnings; Hann er alldrei Ovæntur, enn þo ætijd Ovijs, þad er ad skilia, hvar, hvenær, eda med hveriu moote hann Mannskiepnunne ad Hondum kiemur.

Slijkur er nu Daudenn, Brædur mijner, hvørn Paulus nefner hinn sijdarsta Ovin; 1. Cor. 15. v. 26. Enn hvernenn er hann dijrmætur halldenn fyrer DRottne, hann sem skapade Mannskiuna i Ondverdu til Lijfsens enn ecke til Daudans. Sap. 2. v. 23. Pad kiedur fyrer dijrmætann Dauda hins sanna Daudans Sigrara, og Dijrdlegasta Lijfsens Hofdingia Guds Eingietens og Elskulegasta Sonar JEsu Christi, þa sem Daudann hefur Makteñe svipt, enn Lijfed og Odaudlegleikann i Lioos

leidt

leidt: Enn hvornenn hefur JEsus Daudann svipt sinne Makt? Pad giorde hin mykla Hetia, og saa Eilijfe Fader og Fridar-Hofdinge, Esa. 9. v. 6. med sinne bitru Pijnu og Bloodugum Dauda, er hann Blessadur Manlegu Hollde J-klæddur, Saklaus af Einskiærre Elsku og Myskun leid og holde, Syndugu Mannkyne til Endurlausnar og Saaluhiaalpar; Pegar hann, sem er sannur Gud og pad eilijfa Lijfed, 1. Joh. 5. v. 20. Smackade sialfur Olifian Daudans og hinna bitru Helvijtes Kvala; Hvar ed aasamt ødrum herfelegum Pijslum, i hvorium hid Saklausa Guds Lamb kvaldest, preyngde so hardt ad JEsu blessadre Saal og signudum Lijkama, ad sialft Lijfed, pad doo aa Krossenum, og uppsvelgde so hannveg hinn Eilijfa Dauda i Dijrdlegann Sigur; Jaa, burttook allann Andlegann og Eilijfann Bolvunar-Straffs og Fordæmingar Krapt fraa þeim Tijmannlega Dauda; So hann verdur nu, ollum þeim Blessudum og Elskulegum Guds Bornum, sem lifa i Heimenum med JEsum aa Ormum sinnar Trwar, einn sætur Svefn, ækelegur Abate, og Inngaangur til Eilijfrar Dijrdar og Æ varande Himneskrar Sælu. JEsus er sinna blessadra Barna Dijrmætt Lijf, og sialfur giörer hann þeirra Dauda ad dijrmætum Avinninge, Phil. 1. v. 21. Fyrer JEsu Blessada Forþienustu, er fyrer DRottne Dijrmætt hallded.

# I. Guds Barna Lijf.
# II. Guds Barna Daude.

I. Er fyrer DRottne Dijrmætt hallded Lijf hanns Elskulegra og Blessadra Barna: Pad gieck Saul Konunge til Hiarta Fordum, hversu Lijf sitt hefde dijrmætt vered i Davids Augum, þa hann villde ecke leggia sijna Hond aa hinn Smurda DRottenns, 1. Sam. 26. v. 21. Sem þo var hanns Daudlegur Fiandmadur, og hvors Lijf David maatte þa seigiast, ad hafa i Hende sinne; O! Laattu þad gaanga þier til Hiarta, Christenn Manneskia! Og siaa til þu kannest vid þad, med audmiwkre Lofgiord og innelegasta Astar Packlæte, hvorsu Lijfed þitt var fyrer DRottenns Augum Dijrmætt hallded, þegar þu varst þo hanns Ovinur; Jaa, Daudans og Reidennar Barn, ad hin Eilijfa Giædskann þyrmde ecke Lijfe sijns Eingietens Hiartans Sonar, helldur gaf hann wt i Krossens Kvaler og Dauda, Rom. 8. v. 32. So ad hann Blessadur giæte þyrmt og vægt Lijfe vor Lijflausra Saka-Manna fraa hinum eilijfa Dauda, og Obærelegum Helvijtes Pijslum: So elskade Gud Heimenn, ad hann gaf wt sinn Eingietenn Son; Uppa þad aller þeir sem aa hann trwa skylldu ecke fortapast, helldur hafa þad Eilijfa Lijfed: Joh. 3. v. 16. Menn hallda þa Hlute dijrmæta, yfer hvoria þeir hafa komest med mikellre Mædu og Kostnade; Og þvi skyllde þa ecke hinn mykle Myskunsemdanna-Fader hallda dijrmætt Lijf sinna blessadra Barna, sem hann af Grunnlausre Elsku og Ogrijpannlegre Giædsku sinne, hefur sier til

Handa keypt, ecke med forgeingelegu Gulle eda Sylfre, helldur med dijrmætu Blo-ode JEsu Christi; þess Saklausa og Oflecfada Lambsens? 1. Pet. 1. v. 18. 19. Meñ hafa miklar Mætur a þeim Hlutum sem þeim kiærer eru, og eru lagader epter þeirra Vilia; Mun þa hiñ alleina goode Gud, Matth. 19. v. 17. Laata sier midur fara vid sijn Elskuleg Børn, sem fyrer Trwna eru Riettlaat og Heilog, Dijrmæt og Blessud vordeñ? Hafande Frid vid Gud fyrer DRotteñ vorn JEsum Christum: Rom. 5. v. 1. Sem fyrer Dijrmætañ Myskunar Krapt hins gooda Verduga Heilaga Anda, selia sig hvad dijrast til ad framdraga sitt Lijf i Heime þessum.

(a) J DJJRMÆTRE TRWV, fyrer hveria JEsus lifer i þeim med siñe Elsku og Myskun, med siñe Naad og blessan; Og þad þau lifa Holldenu, þad lifa þau i Trwñe Guds Sonar, sa þau hefur Elskad og giefed sitt Lijf i Daudañ fyrer þau, Gal. 2. v. 20.

(b) J DJJRMÆTRE ELSKU OG GUDRÆKNJ, takande sier trwañ vara fyrer þvi ad lia ecke sijna Limu til ad þioona Ohreinleikanum: Helldur kostande kapps uñ þad, ad liaa sijna Limu; Jaa, giorvalla sijna Saalar og Lijkamans Krapta til ad þioona Riettlætenu, so þau meige verda heilog, Rom. 6. v. 19.

(c) J DJJRMÆTRE HLJJDNE og H. POLENNMÆDE; Fyrer hveria Guds Børn audmiikia sig under vollduga Hønd sijns Himneska Fodurs, 1. Pet. 5. v. 6. Bæde i Medlæte og Mootlæte, giefande sig fangna, under hañs blessadañ Naadar Vilia med Poleñmæde i Kvoleñe, Packlæte i Velgeingneñe, og Stadfeste i Bæneñe ætijd i Andanum glooande? Rom. 12. v. 11.

Hversu Dijrmætt ad slijkra, i JEsu blessadra Guds Barna blessad Lijf sie, fyrer Naadar Augum DRottens, vottar sialf hin eilijfa Giædskañ, med hinum iñeleguſtu Elsku, og Hiartnæmustu Huggunar Ordum fyrer Muñ Spaamañsens Jeremiæ a þeñañ Haatt: Er Ephraim ei miñ dijrmætur Sonur og mitt elskulegt Barn? Par fyrer sundurbrotnar mitt Hiarta til hañs, so eg hlijt honum Myskunsamur ad vera, seiger DRotteñ. Jer. 31. v. 20. Meñ geima sijna bestu Dijrgripe i læstum og velvondudum Hyrdslum, so þeir missest hvorke nie mæte Skiemdum nockrum: Guds voldugasta verndar Skiool, og hañs miwkaste Myskunar Fadmur, er sa orugge Kastale, og su, fyrer allre Olucku, læsta Lijknar-Hyrdsla; Hvar iñe Fader Myskunsemdaña og Gud allrar Huggunar, verndar og vardveiter sijn blessud og dijrmæt Børn, fra ollu þvi sem þeim kañ Tioon, Skom edur Skada ad giora; Huggar þau og hresser i ollum Hormungum og Mootlæte, blessar þau og bijgaafar, med allskonar Andlegre og tijmañlegre Blessan i Himneskum Giædum, allt iñ i eilijft Lijf; Pau sitia under Skioole hins hærsta og Skugga hins Almaattuga; þau seigia til DRottens: Mitt Traust og mitt Slot; Miñ Gud, a hvorn eg treyste: Psalm. 91. v. 1. & 2. Gud hefur þinar mestu mætur a sijnum

um blessudum Bornum, sem med saňre og lifande Trw umfadma daglega haňs miklu Myskun; Esajas seiger: Ad þau sieu fagurt Diaasn i Hende DRottens, og eiň Konunglegur Hattur i Hende sijns Guds: Es. 62. v. 3. Gud ber hina naakvæmustu og elskurijkustu Umhyggiu fyrer sijnum blessudum og dijrmætum Bornum, sem med jduglegum Bænar Andvorpunum, og breňande Hiartans Alvorugiesne, fela sig jduglega i Fadmeň haňs Myskunar; DRotteň vardveiter þau sem Siaaldur sijns Auga, Deut 32. v. 10. Gud sleppir alldrei Hesd og Hallde siňar Elsku og Myskunar af sijnum dijrmætum blessudum Bornum, sem med stadfastre Gudrækne og oruggre Von laata aungvaň Hlut skilia sig vid haňs heitu Elsku; Mijner Sauder heyra mijna Raust, seiger JEsus, ieg gief þeim eilijft Lijf; Alldrei skulu þeir fyrerfarast, og eingeň skal slijta þa af miňe Hende. Joh. 10. v. 27.

Fyrer JEsu blessada Forþienustu, er fyrer DRottne dijrmætur halldeň:

# II. Guds Barna Daude.

Þess verdur gieted i Ritninguňe, ad þar hafe vered Dyr a Jerusalems Mustere, sem Kalladar voru hinar Fogru: Act. 3. v. 2. Jeg kalla ad Daude allra Guds Elskulegra og Blessadra Barna, sem lagt hafa Alhuga a, ad deyia fraa Syndeňe, eň lifa Riettlætenu, Rom. 6. v. 11. Medaň þeim var uňt ad lifa; Hvers vegna Lausnareň JEsus vill, ain alls Efa, lifa i þeim med siňe Myskun, nær þau eiga ad deyia; Sieu fyrer DRottne Dijrmætar, og þeim Blessudu DRotteňs Ast-Vinum fagrar og Fagnadar-rijkar Dyr, i giegnum Angistarfullaň Syndareňar Beiskleika, til hins Indesfullasta Heilagleikans Fullkomlegleika, i gie,gnum þeňaň Ogudlega og Armædufulla Heim, til hins Veglegasta, besta og Fagnadarfullasta Himens; Hvar ad vera mun Gnogt Fagnadarens, og Gledelegt Lijf, til Guds Fodurs Hægre Handar, Psalm. 16. v. 11. J giegnum Stundlega Armædu, til hins Eilijfa Yndes; J giegnum Stundlega Sorg, til hiňar Eilijfu Glede; Stundlega Vesolld, til Eilijfrar Fullsælu, Stundlegt Erfide til Eilijfrar Hvijldar; Og i einu Orde ad seigia: J giegnum Oseigiaňlega Vesolld Eymdareňar, til Omælaňlegrar Pijngdar Dijrdareňar.

Vijst hefur Esther vered dijrmæt i Augum hins Volduga Assveri Konungs fordum, Haň Elskade hana fram yfer allar Kvinnur; Hun faň Naad og Myskun fyrer haňs Augum, og vard upphafeň til þeirrar Veglegu Vyrdingar, ad hun skyllde heita Kongsens Drottning: Esth. 2. v. 17. Eň hvad er slijkt aňad eň Nidurdrep og Vanvyrda ad reikna hia þeirre Dijrmætustu Elsku, þeim dijrmætasta Sooma og þeirre dijrmætustu Sælu til hverrar Konungur eilijfrar Dijrdar og Myskunar vor DRotteň og Lausnare JEsus Christur upphefur sijnar blessudu og dijrmætu Brwder a þeirra Dauda Stundu; Þegar þær i dijrmætu Lambsens Bloode laugadar, og med JEsu Dijrmætum Riettlætes Skrwda prijddar, verda fyrer

sœtañ og Saaluhiaalplegañ Dauda-Svefn, iñleiddar i þad Himneska Lambsins Brwdkaup til eilijfrar Dijrdar, og œvarande himneskrar Sælu, þvegnar af Syndunum i dijrmœtum JEsu blessudum Bloods Krapte, og riettlaatar Giørdar fyrer Orded hañs Vitnisburdar: Apoc. 12. v. 11. Pegar þær fyrer svartañ Sorgar Seck, fa og ødlast hvijtt Haatijdar Klæde Himneskrar Glede og Ununar; Fyrer raudlitadañ Raanglætingaña Ræfel, þañ skijnande Skrwda fullkomens Riettlætes, Fridar og Fagnadar; Fyrer bogeñ breiskleikans Reirstaf, fagurbloomgadar Palmavidar-Greiner eilijfrar Sigurviñingar a øllu vondu, og eilijfrar yndisfullustu Fullkomnunar, i allskonar blessan, Sælu og Sooma hia blessadre hægre Hende þeirra blijdasta Brwdguma JEsu, og i fegursta Samkvæme allra H. Eingla og Utvalldra DRottens i þeirre Sælu og Dijrd, sem ecke hefur Auga sied, ecke Eyra heyrt, og alldrei i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komed, 1. Cor. 2. v. 9.

O! hvad Dijrmæt mun fyrer DRottne i Daudanum vera su riett-trwada Saal, og dijrmæt JEsu blessud Brwdur, sem i sañre og lifande Trw, allt frañ i Andlaated hefur vardveitt sig oflecfada fra þessum vonda Heime, Jac. 1. v. 27. Pegar sa dijrmætaste Saalnaña Brwdgume, DRotteñ JEsus, med hinum dijrmætustu Elsku Ordum og Astudleguftu Kiærleiks Atlotum medtekur hana i siñ dijrmætañ Dijrdar-Fadm; hvar hun, sem i Taarunum hefur nidur Saad, vid hañs Myskunar Fætur, hier i Tijmanum, skal uppskiera outseigiañlegañ Fognud, uñ oendañleg Ar Eilijfdareñar, Psalm. 126. v. 5. J hina dijrmætu og blessudu Jerusalem sem þar er uppe: Hvar Daudeñ mun ecke meir vera, eige Harmur nie Kveinan, nie helldur nockur Pijna; Pviad Dijrmæt Dijrdeñ DRotteñs upplijser hana, og Lioos heñar er Lambed: Apc. 21. v. 4. og 22. J þad dijrmætasta og veglegasta Samfielag þeirra Utvolldu DRottens; Hverra Sool ecke meir mun underganga, nie þeirra Twngl byrtuna missa; Pvi DRotteñ mun vera þeirra eilijft Lioos, og Dagar þeirra Hormunga hafa eiñ eilijfañ Enda feinged, Esa. 60. v. 20. O sæl Unun! O ununarsamleg dijrdar Kior! O JEsu Elsku Ouñræðeleg dijrmætasta Nytseme! Hvorrar ofs øllum niootande ad verda, uñe og veite sa dijrmæte myskunsemdaña Fader, i dijrmætu Nafne og Naadar Trauste JEsu Christi! AMEN.

M:d slijkre Diirmætre Naad af DRottne Coronadur, Lifde og Doo vor Sæle og Loflege Herra Biskup, Nu i Gude Eilijflega Blessadur, Mag. JON ARNASON; Hañ kostade af øllum Kroptum Kapps-uñ þad, ad vera Heilagur og Trwlyndur DRottens Pienare i Lijfenu, og þvi hefur hañ aan alls Efa vered Dijrmætur fyrer DRottne i Daudanum. Hañ giorde sier þad ad Daglegu Handverke, ad leita med yduglegum Bænum sijnum i sañre Audmiikt, og Saaluhiaalplegre Trw, þess saña Riettlætes og Saaluhiaalplega Heilagleika hiaa sijnum Endurlausn-

lausnara JEsu, sa ed alleina giorer slijka sijna Astvine Heilaga; Exod. 22. v. 31. Hañ sat med soññm Heilagleik, Falslausrar Gudrækne og Obreitarar Trwmeñsku. i þvi hava Tignar-Sæte þess Heilaga Embættes, sem honum var af Gude a Hendur faled, hafande jafnañ vakande Auga a þvi, ad giora sig sialfañ hiaulplegañ og þa sem honum heyrdu: 1. Tim. 4. v. 16. Hañs Lijf var fyrer Drottne Dijrmætt, hvort þesse Blessade Herra hiellt ecke sialfur Dijrmætt, nie sparade þad i hinu mïnsta til Obreyttrar Arvekne, glooande Alvorugiefne, og ætijd Erfidande Astundunar i þvi ad fullkoma sitt Hlaup med Fagnade, og þad Embætte sem hañ hafde medteked af HErranum JEsu, Act. 20. v. 24. Hañs Daude var fyrer DRottne Dijrmætur, hvorium (Eg meina Daudanum) þesse Saal. Herra, hafde med Gudrækelegum Paunkum og Christelegum Vidurbwninge mætt so sem a midre Leid, lengu adur eñ þeirra Fundum bar samañ, epter Blessudum Guds Raadar Vilia, og var honum þess vegna i Mætte JEsu Kraptar kiær og velkomeñ Giestur; Hañ hafde sem herkeñ Strijds-Madur JEsu Christi, lengu adur bryniad sig a moote Brodde Daudans, sem er Syndeñ 1. Cor. 15. v. 56. Med Himneskre Guds Hardneskiu, og er þvi nu sem Dijrmætur JEsu Kappe, med Dijrmætum Siare bweñ ad briootast i giegnum Daudans Herfylkingar, og stendur Eilijflega frame fyrer Dijrmætum Stoole Guds og Lambsens, i Dijrmætustu Himnarijkes Farsælld og Glede; Hvar sa Dijrmætaste DRotteñ JEsus hefur fagnad Dijrmætre Saal þessa sijns Dijrmæta og Trwa Pienara, med þessum Dijrmætu Eru og Elsku-Ordum: Eja! Pu goode Pioon og Trwlynde; Pu varst Trwr yfer litlu, Eg vil setia þig yfer miked, Gack iñ i þijns HErra Fognud. Matth. 25. v. 23.

Hvorsu þesse vor Sæle og Blessade Herra Biskup, hafe so sem Heilagur DRotteñs Pienare framgeinged i Heimenum, og sie nu sem eiñ Dijrmætur DRotteñs Pienare burtgeingeñ wr Heimenum, iñ i Himeneñ, Vottar eñ þa framar Hañs Lofsverda Lijfs Saga, Hvoria vier viliam nu med allra færstu Ordum yfervega, og sijdañ i JEsu Nafne taka oss fyrer Hendur ad Hugleida vorn Heilaga Texta, og af honum med Hiaulp DRotteñs bera oss ad læra:

## I. Hvad þeir eige ad hafa til ad bera / Sem vilia framganga i Heimenum, so sem Heilager DRotteñs Pienarar.

## II. Hvad gott þeir fae wr Bijtum ad bera / sem þañ Veg wtganga wr Heimenum, sem dijrmæter Drottiñs Pienarar.

O DROTTENN Hiaalpa þu! O DROTTENN lattu þad vel luckast, fyrer JEsum Christum! Amen.

# Lijfs-Historian.

Nd ei alleinasta sie Leifelegt, helldur eiñeñ Loflegt Framlid-zeña Guds Astvina Lijfs-Søgur ad Vppteikna, og æ peirra Ættar-Vppruna, Æfe Framgaang, og Gudrækelegra Dygda og Dæda Astundan og Athäfner, fyrer peim epterlifande ad miñast; Sierdeilis peirra sem hafa vered ødrum ædre, so vel ad Ypparlegleika Embættaña, sem Agiæte Mañkostaña: Par uñer H. Ritning oss eitt lifande Epterdæme, og hin liioosasta Regla; Par iñe fiñum vier Uppteiknadar Æfe-Søgur peirra Yppurstu og Agiætustu Guds Vina, Nefnelega: Mosis, Abrahams, Isaachs, Jacobs, Davids og añara længtum fleire: Og hvad skal eg tala margt hier uñ? Vier høfum fyrer oss auglioos Guds-Anda Ord, i giegnum Muñ Postulans Pauls, æ peñañ Hautt hlioodande: Peinked æ ydar Lærefedur, peir ed Guds Ord hafa sagdt ydur; Hverra Æfelok pa adhygged, og epterfylged peirra Trw. Ebr. 13. v. 7. Vier eigum pa mijner Elskanleger! ad miñast æ Framlideña Guds Astvina Æfe-Søgur.

1. Guds allra Helgasta Nafne til audmiwkrar Lofgiørdar, fyrer pær veglegu Gaafur; Fyrer pa Fødurlegu Forsioon; Fyrer pa miklu Myskun, og rijkuglega Blessan, sem hañ blessadur veitt hefur og audsynt vorum Framlidnum: Ad vier med samstemande Hiarta og Muñe, seigium med David: DRotteñ, vegna pijns Pioons epter pijnu Hiarta hefur pu giørt alla pessa mykla Hlute, ad pu villder opiñbera pijna Dyrd. 1. Paral. 18. v. 29.

2. Framlidnum Guds Astvinum til verdugrar Hroosunar fyrer peirra Lofs-verda Frañgaungu æ Vegum DRottens, og Gudrækelegra Astundan; i pvi ad effla Guds Dijrd vor æ medal, og verka sijna

eigeñ og añara Andlega og Eilijfa Saalar-Velferd.

3. Epterlaatnum Astvinum Framlideña til kroptugrar Huggunar: Ad nær þeir heyra siña blessadra Gudrækelegu Lijferne og Saaluhiaalplegu Andlaate, med tilbærelegu Hroose aa Lopt hallded; Pa laate þeir sitt Hiarta þar af Fagna og Glediast, i Guds Poleñmæde, og Kiærleika JEsu Christi, saa ed gaf þeirra Astvinum þad besta Hlutskipte: Ad medañ þeir lifdu þa lifdu þeir DRottne, og þegar þeir Doou, þa Doou þeir DRottne. Rom. 14. v. 8.

4. Gioraſt slijkar Lijfs-Historiur, þeim Epterlifendu til aagiætrar Amiñingar: Ad nær þeir siaa hvørsu hiñ Framlidne blessadest af Gude, af þvi hañ Ottadest Gud; So laate þeir sier þar af Umhugad vera, i Framlideña DRottens Astvina føgur Dygda Footspor ad feta, og þeirra helgu Trw og Poleñmæde ad epterfylgia; Þvi slijkum mun ollum til samans, ad Eilijfu velvegna.

Soddañ eiñ Alldeñgard, i hvørium aadur umgieteñ føgur Bloomstur siña meige, meina Eg vera merkelega Lijfs-Søgu vors nu i Gude Blessada og Sæla Biskups Mag. JONS ARNA-SONAR; Vilium vier þvi med Athugaseme aalijta og fyrer oss vyrda, þessa Ypparlega Guds Astvinar:

## I. Lijfs-Iñgaungu.
## II. Lijfs-Frammgaungu.
## III. Lijfs-Vtgaungu.

SO miked sem vidvijkur Vel-Edla Hr. Biskupsens nu i Gude Saal. Mag. JONS ARNA-SONAR LJFS-JNGAUNGU.

1. Pa er hañ Barn-Fæddur og Boreñ i þeñañ Heim Arum epter Guds Burd, 1665. Jñañ Takmarka Christelegrar Kyrkiu; Hañs Forelldrar voru Æruverdigur Kieñemañ Sr. ARne LOpts son, ARna-Sonar LOpts-Sonar PEturs-Sonar Prests: Eñ Mooder Saal. Hr. Biskupsens var goodfræg Kviña Alfeidur SJgmundar-Dootter, GJsla-Sonar JOns-Sonar OLafs Sonar Prests: Fødur-Mooder þessa Sæla Herra var POrun BJarna-Dootter, BJorns-Sonar JOns Sonar ARna Sonar Biskups: Moodur-

Mooder Saal. Biskupsens Mag. JONS ARNA-SONAR var siu Heidurs Kviña GUdrun Pauls Dootter, ORms Sonar SJgurds Sonar NArva-Sonar, af hverium siu Nafnfræga Narva Ætt er kollud; Og þoott marga fleire Valeñkuña og Nafnfræga Forfedur vors Saal. Loflega Herra Biskups mætte Uppreikna, þa leifer þad ei Tijmeñ, og ecke helldur syneft Þørf til þess vera, þar af þeim hier framtolldu er audsært, ad hañ var komeñ af Velmetnu og goodu Foolke i baadar Ætter: Hañs Æruverdigu Forelldrar, af Gude med slijku Ungvide blessud, lietu þad vera sijna fyrstu Skylldu, ad laata hañ Jñplantast þvi saña Lijffens-Trie Lausnara vorum JEsu Christo fyrer H. Vatns-Skijrn, og sijdañ, epter sein Alldureñ færdest yfer hañ, Uppfrædast og Alast i Guds Otta og goodum Sidum.

2. A-hrærande vors Sæla og Blessada Herra Biskups LJFS FRAMMGaungu; Þa, so sem hiaa honum formerktust strax aa Unga Alldre slijkar Naams Gaafur, ad hañ munde, ef þær være riettelega brwkadar, verda christelegre Kyrkiu til Uppbyggingar; Lietu hañs Saal. Forelldrar alla Astundan þar aa leggia, ad hañ mentadur yrde i Latinu Lærdoome og ødrum Booklegum Konstum, hvar i hañ og giørde so gooda Framfør, ad epter faarra Ara Ydkun i heima Skoola, var hañ settur i Skaalhollts Doom-Kyrkiu Trivial Schola under Tilsøgn þa verande Skoola-Meistara, eñ sijdañ Prests ad Hijtardal, Sr. Olafs Jonssonar; Og epter Reglulega Utendada sijna Skoola-Veru, ødladest hañ þadañ honorificam Dimisſionem med agiætum Vitnesburdum: Þar epter excolerade hañ sijn Studia i heima Hwsum, og gaf sig sijdañ med-liwfum Villia sijns Saal. Fødurs til Kaupeñhafnar, þess Eyrendes, ad taka eñ þa frekare Framforum i sijnum Studiis, hvar til hañ hafde mikla Lyst og agiætar Gaafur af Gude þeiged; Studerade sijdañ vid þad Konunglega Academie i 2. Ar og gieck under Examen Theologicum þa verande Profesſorum Theologiæ berande wr Bijtum Characterem Haud. Illaudabilem, Kom so, ad siñe Atteſtatiu tekeñe, med goodum Lofstijr aptur til Fødur-Landsens, hvar hañ Año 1692. Var af Saal. Biskupenum Hr. Einare Thorsteinssyne, Sæltrar Myñingar, Kalladur til ad vera Heyrare i Hoola Schola, i hveriu Embætte hañ synde so stoora Arvekne, ad hañ epter Þriggia Ara Þienustu

ustu i þvi, var aallteñ ad vera hiñ hæfelegaste til Skoola-Meistara Embættes, til hvers hañ og var kioreñ 1695; Þvi Embætte þienade hañ med stærstu Alud og Obreittre Kostgiæfne, so Ungdomureñ giørde gooda Framfør under hañs Tilsogn.

Nockrum Arum þar epter, þocknadest Gude ad laata hañ Iñgaunga þa H. Hioonabands-Stiett, og vallde hønum til Brwdur þa verande Edla Jomfrw, eñ nu hañs Saartharmande Eckiu, Frw GUDRUNU EJNARS-DOTTUR Biskups aa Hoolum; Og Framfoor H. Trwlofun, og sijdañ Regluleg Hioona-Vigsla þeirra aa mille, ad Reinestad þañ 7. Septembris, Anno 1703. Þetta þeirra Hioonaband blessade Gud, epter Tveggia Ara Sambwd med Lijfs-Averte, og gaf þeim eiñ Son, ad Nafne Arne, fyrer hvorium þau baaru alla Forelldralega Umsorgun, bæde til Uppfrædingar i sonnum Guds Otta, so og eiñig Booklegum Mentum, Jñañ Lands og Utañ, hvar i hañ og giørde gooda Framfør, og var hallideñ med lærdare Moñum af sijnum Jafnølldrum; Hañ Studerade Fiogur Ar vid Kaupeñhafnar Academie og odladest til Examen Theologicum Characterem Laudabilem.

Þegar vor Saaluge Herra Biskup hafde þienad aadur aumiñstu Skoola-Meistara Embætte um Toolf Ara Tijma med Ypparlegre Alwd og aagiætum Averte, þa þocknadest Gude ad laata siaa, ad hañ blessadur villde, sem fyrer Tropþugaung Upphefia þeñañ Saal. Herra til hiñar ædstu Tignar, sem hañ i þessu Faatæka Lande hefur prijdt sijna Elskendur med, og hañ hønum sijdar veitte, og Kallade hañ Añó 1707 til þess H. Prests Embættes, ad Stad i Steingrijms-Firde; Hvar til hañ og af Saal. Biskupenum Mag. Joone Widalin var Ordineradur; Hvoriu Embætte hañ sijdañ allt til 1721 trwlega, Gudrækelega og Loflega Forstødu veitte.

Arenu epter þad hañ hafde þa H. Kieñemañs Stiett uppa sig teked, var hañ, sem hiñ verdugaste medal siña Embættes Brædra Kioreñ, og af fyrr velnefndum Hr. Biskupe Mag. Widalin skickadur til ad vera Proofastur yfer Stranda Sijslu; A hvoriu Embætte hañ took so trwañ vara, med þvi ad tilhallda, sijnum Underhafande Prestum, ad kieña Guds Ord hreint og klaart, samt Uppfræda þeirra tiltrwada Safnade i Saaluhiaalplegre Christeñdomsens Þeckingu, ad ecke, ed-

 ur

ur varla fanst hier i Lande so vel uppfrœddur Ungdoomur sem i hans Proofasts-Dœme: Og med hvad ægiætum Lofstijr nær og fiær ad þesse dijrmæte DRottens Pienare, hafe umgeingest i Hwse lifanda Guds, þar til kalla eg ad sie hin liooslaste Vottur; Ad þegar Gud fyrer Tijmanlegan Dauda burtkallade þann Lofsverda Herra Mag. Joon Thorkelsson Widalin fordum Biskup þessa Stiptes, blessadrar Myñingar, sem skiede Año 1720. Og vor nu Saal. Herra Biskup, verande bæde so sem i Afkima þessa Lands, og lijka fraasneiddur Veralldlegre Metorda Gyrnd, Kieptest ecke epter, ad klæda þad auda Biskups Sæte, var honum fraa Cancelliet i Kaupenhafn epter hans Majest. vors þa Rijkiande Allra-Naadugasta Konungs Friderichs Fioorda Haalofflegrar Myñingar Allra-Naadugustu Befalningu, af þa verande Geheime-Raad og Oberfecretaire, eñ sijdan Stadtholder i Noreg Hr. Ditlew Wibe Tilskrifad Año 1721. Ad hans Majest. Allra-Naadugaste Vilie være, ad hañ skyllde Reysa til þess Konunglega Residentz Stadar Kaupeñhafnar, og þar Ordinerast til þess yacante Biskups Embættes; Hvørre Konunglegre Skipan, hañ og allra Underdanugast epterlifde, og reyste med Stickeshoolms Skipe til Danmerkur sama Ar; Hvar hañ var vel Medtekeñ, og sijdan epter hans Kongl. Majest. honum meddeilldri Allra-Naadugasta Bestallings Briefe fyrer Biskups Embætte yfer Skaalhollts-Stipte, Jnvijgdur til þess Haaverduga Biskups Embættes i Vor-Frwe-Kyrkiu a Bodunnar Haatijd Mariæ Año 1722 af þa verande Haa-Edla og Haa-Æruverdigum Biskupenum i Sællands-Stipte Doctor Christian Worm, ei einasta med Venjulegre Solennitate, helldur og med stærre Vidhofn, þar þad Konunglega Herskab med siñe Allra-Naadugustu Naalægd, prijdde þessa vors Saal. Herra Biskups Vijgslu, hvar til þad Allraunderdanugast var inviterad; Og naut Saal. Hr. Biskupeñ þeirrar Naadar, sem faaer Jslendsker ødlast hafa, ad vera Bordgiestur hañ sama Dag vid þad Konunglega Taffel.

Uñ Vored epter reiste hañ til Landsens aptur med Eyrarbacka Skipe og settest ad Biskups-Stoolnum hier i Skaalhollte, hvørium hañ hefur sijdan Loflega Forstødu veitt, jafnañ ærstundande ad Efla Guds Dyrd, og Safnadaña Velferd; Til hverra Saaluhiaalpleg-

rar

var Undervijsunar hañ Jnvijgde til Kieñemañlegs Embættes Niutiju og Þria Presta.

So sem mier soomer eingvañveigeñ þeigiande ad gaunga frañ hiaa þeim Ypparlegu Dygdum og Daadum, med hverium þesse vor Saal. Hr. Biskup var af hinum Naaduga Gude prijddur; So maa eg med goodre Samvitsku, fyrer utañ nockrar faafeingelegar Jkiur Vitna uñ hañ: Ad Gudhrædsla, Lijtelæte, Trygd og Daanumeñska höfdu wtvaled hañs Hiarta sier til Jbwdar; Hañ var Stioornsamur og Røgsamlegur i sijnu Embætte, hatande Leste og Odygder, hveriar hañ med goodre Skinseme straffade, og liet sig hvørke fyrer Villd nie Vinaattu þar fraa leida; Hañ var Arvakur i þvi ad frañkvæma hvad eitt sem hañs Embætte vidkom, bæde i þvi ad Visitera Kyrkiurnar og Yferheyra Søfnudena, so hversu sem hañs Heilsu edur Tijmans Ohentugleika var haattad, liet hañ slijkt alldrei aa nockru Are undañ falla; Hañ audsynde sijna Gudhrædslu, so vel med ydugleguni Bænum til DRottens, i hvørium hañ optlega Taaradest fyrer sijnum Gude, i sañre Audmykt og Alvørugiefne; Sem og eirnig kostgiæfelegre Heyrn, hañs H. Lijfsens Orda, er hañ liet alldrei af Forsoomun hiaalijda: Hañ var fridsamur og lijtelaatur i Umgeingneñe, Poleñmoodur i Mootlætenu, med hvøriu hiñ Naaduge Gud vitiade hañs, og medtook þad sama med hlijdugu og i Gude glodu Hiarta: Hañ var Forstandigur i Hws-Stioorneñe, Riettsyn i Høndlaneñe, Merkur og Hreinlyndur i øllum vidskiptum; Pad var alldrei ad Ottast, ad hañ geimde añad i Hiartanu, eñ hañ talade med Muñenum; hañs Loford tooku aller so gilld, sem añara sterkustu Handskripter; Hañ var stødugllyndur triggur og trwfastur Vinum sijnum: Hañ var sliootur til ad laana þeim sem hañ beiddu, og stoor ørlaatur vid þa, sem hañ visse vera naudstadda og rietta Olmusu-Meñ, edur hønum þoktu lijkleger ad verda Guds Christne til Uppfrædingar, og Landenu til Gagns og Nytsemda; Hvar uñ lioosast vitna þeir stooru Peningar, er hañ giefens utbytte þeim sem i þeirre Veru hiedañ fra Landenu til sijña Studeringa sigldu, uppa hverja hañ kostade yfer 600. Rixd: Hañ gaf og aasamt sijñe Veledla Frw, nockrar Jarder, faatækum Prestum til Upphelldis-auka; Og hefde hinum Naaduga Gude þocknast ad spa-

 ra

ta leingur þessa Sæl: Herra Lijfdaga, hefde hans høfdinglegt Orlæte, en þa framar vid þa auglioost vorded, hvad bæde Hans vinum og handgeingnum er vitanlegt.

Han var hin Ydiusamaste, og brwkade han Tijma sem afhlaups vard hans ypparlega Embættes Verkum, æ jafnan til einhverra Nytsemda; Hvad liooslega sijna hans epterlaaten ægiætu Skrif: Og sem han var haalærdur i Theologia, Mathesi og Lingvis; So hefur og Publicum fyrer þessa Sæl: Herra lofsverda Astundan odlast þar af ypparleg Specimina.

Pad fyrsta Skrif sem han Publicerade var eitt Islendskt Rijm lagad epter þeim nya Stijl, sem hans Majest: Kong Friderich Fiorde haaloflegrar Minningar, skipade hier i Lande, eins og annarstadar i hans Londum og Rijkium skyllde brwkast: Petta hans Rijm er prickt a Hoolum i Hialltadal Anno 1707, eitt ægiætt og Landenu gagnlegt Skrif.

Par næst liet han utganga Spurningar ut af Frædunum, sem yfer allt Landed hafa med stærstu Nytseme vered kiendar Ungdoomenum i næstlidenn 20 Ar: Og svo sem þesse blessade Herra hafde ætijd eitt sierdeiles vakande Auga yfer Ungdoomsens Framfor, so vel i Saaluhiaalplegre Guds Peckingu, sem Booklegum Menntum; So took han sier fyrer ad utleggia ur Donsku, eina ypparlega Skoola Book, sem kallast Nucleus Latinitatis, hvoria han æsamt odrum, af honum og so Innrietttudum Præceptis Grammaticalibus liet uppa sinn eigenn Kostnad i Kaupenhafn prickia, og nockur af þeim med besta verde selia, enn nockur þeim Fatæku giefens utbijta: Han took og fyrer sig ad uppgotva þa fallegu Frij-Konst Fijngra Rijmed, sem allareidu var so ad seigia fyrer Odal logd, og liet prickia þad i Kaupenhafn 1739. Vor sæle og blessade Herra Biskup liet sier einig þar umhugad vera, ad hroosverd og Guds Christne nytsamleg Verk annara Manna mættu ongvu sijdur enn hans eigenn wtganga, og i lioos leidast; Hvors vegna han tookst a Hendur, ein og onnur slijk Skrif ad Revidera, sem adrer hofdu af Framande Twngum a vort Moodurmaal Utlagt, og liet þau sonnu sijdann i Kaupenhafn pryckia, og þar epter med miklu betra Verde selia, enn hier i Lande hefur Venia til vered; Pessar Bækur

kur voru fierdeiles Arndts Christeñdoomur og Rostochs Postilla: hier ad auk liet hañ a næstlidnu Are, prickia Utañlands pa Jislendsku Psalma Book, sem ad mestu var urgeingeñ, og sellde hana pridiunge miña eñ hun hafde ædur hier i Lande selld vered.

Pad yrde allt oflangt ad upptelia a pessum Tijma øll vñur Skrif pess Saal: Herra, sem hañ hefur sialfur samañteked og Vinum sijnum medeillt; Hvør po eru ægiæt og verd ad lesa, sijnande hvørsu viturlega hañ hefur villiad Uppgøtva Sañleikañ i hverium Hlut.

Af øllu ædur tøldu, hygg eg pad preifañlegt og audsæert vera, ad vor Saaluge Herra Biskup, hefur med lofsverdre Gudrækne og obreittre Astundan brwkad pau Náttuूruñar og Luckuñar Gæde, med hverium hiñ naaduge Gud hafde prijdt hañ, sijnum Skapara til Lofs og Dijrdar; Hañs Christne til Uppbyggingar, eñ sier og sijnum til Gagns, Æru og Glede.

3. Epterfylger nu med fæum Ordum ad innñast æ vors nu i Gude Blessada Herra LJFS-UTGAUNGU ur Heimenum: Hañ var ødruhvorin sijdañ æ nærstlidnum Vetre um Kyndelmessu Leite, kvilladur framar Veniu, eñ til pess Tijma gaf Gud hønum miked gooda Heilsu, og framar eñ almeñelega plagar ad fylgia so hæfum Alldre; Po frañkvæmde hañ æ nærstlidnu Sumre, bæde sijna Visitatiu-Ferd i Skaptafells-Syslu, og añad er hañs Embætte Utkrafde; Eñ æ Suñudags-Kvølldid nærsta epter Afslidna Kyndelmessu, took Hel-Sootteñ hañ, med strijdum Takverk i Herdunum, er Deigenum sijdar dreifde sier frañ fyrer Brioosted, og par epter med Pyngslum i øllum Lijkamanum; Varade so Veikleikeñ med vidlijka moote, i nærst Epterfylgiande Tvo Daga; Eñ æ Pridia Deigenum liet sig forñema Blooduppgaungur fra Briooſtenu, og Noottena epter kooku Lijkamans Kraptar svo miøg til ad mijnka, ad nærsta audsynelegt var, ad hañs Mæda munde snart Enda taka, og uñbreitt verda i Ofallvallta Glede, hvad og skiede ad goodum Guds Villia; Eñ æ! hvad mørgum til Hrigdar og Angurs-Auka? Par pesse blessade Herra, og vor Andlegur og Astwdlegur Fader, var burt tekeñ fra oss, og skyllde vid petta Lijkamlega Lijf, fyrer Tijmanlegañ Danda, under Dag somu Naattar, mille pess Stounda og Attunda Yferstandande

Februarii Maanadar: Skiede þetta hañs, oss sorglegasta, eñ sialfum hönum hid gledelegasta sætt og Saluhialplegt Andlaat, i Vidurvist hañs Vel Edla saart harmande Frwr, samt Heyrarans Monsr: Einars Jons sonar og añara hañs Handgeingeña, þegar þesse Saal: Herra hafde lifad hier i Heime 78 Ar, i H: Hioonabande 40 Ar, i Biskupslegu Embætte 21 Ar. Eñ i Profasts Prests og Skoola Embættunum 30 Ar.

Haattlofadur og eilijflega vegsamadur vere Gud, sem þeñañ voru sæla og blessada Herra naadarsamlega iñleidde i Heimen; Farsællega frañleidde i Heimenum i giørvollum hañs ypparlegu Embætta Utrettingum, sijnu H Nafne til Dijrdar, og siñe christelgre Kyrkiu i þessu voru faatæka Føðurlande til stoorrar Nytseme og Eflingar, og hefur nu fyrer sælañ Dauda kallad hañ burt ur Heimenum iñ i Himneñ; Hvar ed hañs blessada Saal, leist af allskonar Eimdum, nijtur vendanlegrar og eilijfrar Sælu, frame fyrer Stoole Lambsens; Eñ Lijkameñ er af Velæruverdigum og Heidarlegum Moñum lagdur til sijns sijdasta Hvijldarstadar i þessu Guds Hwse; Hvar hañ sætlega sofande i Skaute siñar Moodur Jardareñar, hvijler frelstur fra allre Armædu, og Ervides Pianingu þessrar Veralldar, allt til Dijrdarfullrar Guds Barna Uppriisu a hinum efsta Deige; Pa hañ mun aptur samteingiast hinum ædra Parte Skapnadarens Saaluñe, og so af Klæddur þessa Jardneska Hreises sorglegum Forgeingelegleika, iskrijdast dijrdlegum Oforgeingelegleika, i DRottens eilijfa dijrdar-Rijke; Hvar ed þesse dijrmæte Guds Þienare, sem ødrum hefur kient, mun skijna sem Himensens Geislar, og hañ sem mørgum vijsade til Riettlætesens lijka sem Stiørnur uñ Alldur og ad Eilijfu; Dan. 12. v. 13. Eñ losleg Myñing og Mañord þessa utvallda Guds Mañs og Verkfæres, blijfur i Blessan og Sooma hia ølum goodum og Gudelskande Moñum og sierdeiles i þessu Skaalhollts Stipte; Hvert ed med Sorg og Trega saknar hañs hroosverdrar Forstødu og Føðurlegrar Uñbyggiu; Sa sañe Israels-Grædare og Gud allrar Huggunar, vere þess og allra vor sem þar iñe byggium, beste Fader og Forsvar, Hiaalpræde og Huggunar-Traust! Vier hofum mikid mist, M: E! Grautbænum þvi Gud i JEsu Nafne, ad hañ straffe oss

ecke

ecke i sine Reide, helldur vyrdest ad minnast vor i sine Myskunseme, og senda oss einn slijkann Fodur, i vors nu sæla og blessada Fodurs Stad, sem ad hanns Dijrmæta Dæme, stunde Guds Dijrd, og vor, hanns blessadra Barna, andlega og eylijfa Velferd; So vier meignm sinna og Formerkia, ad DRottenn er nædugur Jerusalem og vill ei ad eilijfu ysergiefa sijna Utvolldu Arfleifd.

Saa Millderijkaste Myskunsemdanna-Fader, 2. Cor. 1. v. 3. Saa er oss huggar i allre vorre Hrygd, vyrdest ad gledia og Endurnæra med Naad og Hugsvølun sijns H. Anda, vors Saaluga Herra Biskups Vel-Edla Egta-Hiarta Sorgmædda Saal, og Sundurkramenn Anda; Svo hun i hanns Føgnude, og Fødurlegum Myskunar-Krapte, þessa skanniviñu Harma-Stund, Polennmoodlega Afþreyia kunne; Þar til DRottenn hana og hennar, nu til eilijfrar Dijrdar aa undann henne geingenn Blessada Egta-Herra, til Osundurslijtannlegrar, og Yndesfullustu Sambwdar, aptur Samteinger aa Himnum Eylijflega; Hvar ed hun, aasamt øllum sijnum Undannførnum Astvinum, mun Skijnande sem Sool i Rijke sijns Fødurs sijngia med fagre Fagnadar Raustu: Vertu nu til Frids aptur Saala mijn! þvi DRottenn veiter þier hid gooda; Þvi þu hefur Utrickt minne Saaln wr Daudanum, Augum mijnum af Taarafollunum, Footum mijnum fraa Hrøsunnenne; Psalm. 116. v. 7. 8. 9. Eg vil gaanga fyrer DRottne aa Lande þeirra Lifendu. O Gud-Gief Þu Oss Þann Sooma!

Ad Sijdustu lætur Saal. Herra Biskupsens Epterþreyande Vel-Edla Frw hier med Alwdlegast þacka øllum Ydur, Edla, Vel-Eruverduger, Gøfuger og Vyrdugleger Menn, sem hennar Saal. Egta-Herra Jardarfør hafed nu prijdt, med Ydar soomasamlegre Nalægd, og med aludlegre Pienustu styrkt til þess, ad hanns Andvana Blessadur Lijkame, er nu med tilbærelegum Sooma lagdur til sijns Sijdarsta Hvijlldarstadar; Viliande slijks Yckar Kiærleika og Elsku-Merkes vid sig og sinn Framlidna, til hins besta þacklaatlega Endurminnast; Og Oskar af Hiarta: Ad Gud vyrdest ad vera allra Yckar beste Vin, Hiaalprræde og Huggunar-Traust, þa best, nær mest aaliggur!

O DROTTEN! Vier Daudleiger Vesælijngar, Kvøkum og koll-

um

um til þijn i JESU Nafne: Uñ þu oß øllum Gudrækelega ad Lifa, Þoleñmoodlega ad Lijda, Sælubiælplega ad Deyia, og Gledelega til Eylijfs Lijfs Upprijsa! AMEN.

* * *
** ** **

# Textans Utlegging.

Þegar Lijkameñ er afklæddur sijnum Hvorn-Dags Bwninge, þa fær Madur hina værustu Roo, og nijtur hins sætasta Svefns i sijnu Hvijlu-Rwme: Þegar eitt Riett-Christed Guds Barn hefur Æ jafnañ fyrer lifande Trw og Elskufulla Endurnijung, Eina gooda, og i Gude glada Samvitsku ad geima, sem hreinsud sie i Heiløgu JEsu Bloode af Daudlegum Verkum, til ad þioona lifanda Gude, Ebr. 9. v. 14. Sw er hin miwkasta Sæng til ad sofa a, hiñ sijdarsta Daudans-Svefn, og hvilijkt JEsu Blessad Brioost-Barn, fær aan Efa ad Hvijlast hvad hægast, Endurnærast hvad æstwdlegast, Blessast hvad Rijkuglegast, og Bijvarast hvad Rækvæmlegast i miwkum JEsu Myskunar Fadme, i hinum Sijdurstu Andarslitrum; Þeir Sauderner sem heyra JEsu Rodd, verda alldrei af JEsu Hende slitner: Joh 10. v. 28. Þad er Gledelegt fyrer þañ, ad hversu goodre Sæng, sem þreyttur og mæddur af Erfide, þarf ad leggia sig til Hvijldar; Eñ O! hvad Þusundsiñum ækelegra er fyrer eitt Riett-Christed Guds Barn, sem Or-þiæadt og mædt er vorded af Hita og Þwnga þess Dagsens siña Lijfdaga i Vijngarde DRottens hier i Heime, Matth. 20. v. 12. Til þess giordt, ad þad fyllde Mootlæte lijda, og þess Þijna hefur ætijd fyrer þvi vered, Psalm. 38. v. 18. Þegar þad i sijnu Andlaate, horfande fram a Veg allrar Veralldar, og fiñande hiñ Sijdarsta Daudans-Svefn ad sier sijga, gietur med Sonarlegu Trwnadar-Trauste, og glodu Giede i Gude Heilsugiafara sijnum, Luc. 1. v. 47. Lagt siña Sorgfullu Sæl, og sitt siwka og veika Hiarta, under Guds Volldugu Verndar-Vænge, og vered viß um hañs Fødurlega Raad og Blessan, bæde hier Tijmanlega og sijdar Eilijflega, undertakande med þeim Gudhrædda Konunge Ezechia; Miñstu DRotteñ a þad, hvorneñ eg hefe geinged fyrer þier i Sañleika, med fullkomnu Hiarta, og þad giordt, hvad þier hefur lijkad: Esa. 38. v. 3. Þegar Eyru Lijkamans heyra ecke leingur, eñ Sæleñ maa merkia, ad Guds Ande ber heñe þañ Vitnisburd: Ad hun er Guds Barn: Rom. 8. v. 36. Þegar Hendurner þreifa ecke leingur, eñ Sæleñ fær lijka so sem þreifanlega ad fiña Guds Anda Naadar-

sam-

samlega Verkan, hvorsu hañ bidur fyrer heñe med Oumrædelegum Andvorpun- um, Rom. 8. v. 26. Þegar Augun siaa ecke leingur, eñ Saaleñ helldur sier fast, vid Guds Myskunar-Hiarta, sem hun sier þo ecke, lijka so sem hun sæe þad, Ebr. 11. v. 27. Þegar Augu Lijkamans Formyrkvast, Eñ Saaleñ sier og þecker sialfañ Gud ad vera sitt Lioos og siñ Heilsugiafara: Psalm. 27. v. 1. Þegar Lijf Lijkam- ans er fared af Vanmegne, Eñ Saaleñ veit DRotteñ ad vera sitt Hiartans Traust og Hlutskipte, Lijf og Saaluhialp Eilijflegana. Psalm. 73. v. 26.

Slijkur Saaluhialplegur Daude wr Heimenum, er sætare eñ þad farsælasta Lijf i Heimenum: Eñ giæt þess Christeñ Madur, ad soddañ Saaluhialplegur Svefn- Dwr, audnast þeim einum, þegar þeir eiga ad deyia, sem, ad Dæme Postulans Paals, af ollum Mætte, ydka jafnañ sialfa sig, medañ þeim er unt ad lifa, ad hafa hvervetna eina gooda og Ofleckada Samvitsku ad geima, bæde fyrer Gude og Moñ- um, Act. 24. v. 16. Þess gietur saa Dijrdlege Guds Madur David i vorum uppleisnum Texta, þegar hañ er ad skijra fraa þvi, hvad þeir eige ad hafa til ad bera, sem vilia eiga vijsañ Ununarsamlegañ Hvijldarstad, Fyrst i miwkum JEsu Mysk- unar-Fadme hier i Heime Tijmañlega, og sijdañ i JEsu Forklaarudum Dijrdar- Fadme aa Himnum uppe Eilijflega: Hañ framtelur hier fierdeiles ÞRJJA EJG- JNNLEGLEJKA, epter hvorium þeir hlioota af ollum Lijfs og Saalar Kropt- um ad kieppast. Nefnelega:

# I. Ad frammgaanga Flecklaust.

# II. Giora Riett.

# III. Ad tala Sañleikañ wt af Hiarta.

I. Hliota Guds Born ad framgaanga FLECKLAUST, hafande DRott- eñs Otta ætijd sier fyrer Augum, og hañs Heilaga Logmaal, Psalm. 19. v. 9. Sem er FLECKLAUST og Endurnærer Saaler þeirra, fyrer Mælesnwru og Leidarvijser siñar Lijfernes Framgaungu, i þessum vonda og Ogudlega Heime: Þau megna ecke ad framgaanga FLECKLAUST epter straangre Logmaalsens Skullda- bynding; Þvi hvor maa seigia: Hreiñ em eg i mijnu Hiarta, og klaar af mijnum Syndum? Prov. 20. v. 9. Eñ þau eiga og megia ad samverkande Myskunar Krapte DRotteñs, sem ætijd er Maattugur i þeirra Breiskleika, ad framgaanga FLECKLAUST epter Lijknarfullre og sañre Trwareñar Reglu, med Flecklausu Framferde og Raadvandre Umgeingne, aan Hræsne og Yferdrepskapar i soñum DRotteñs Otta, med Falslausum Vilia, Gudrækelegre Astundan, og ætijd vak- ande Elskufullre Alwd i þvi ad þocknast Gude, verka sijña eigeñ Saaluhialp, og kieppast þvi betur sem þeir lifa leingur, epter þvi ad vera algiord, lijka sem þeirra

Himneskur Fader er algiordur; Matth. 5. v. 48. Pau eiga Daglega, ad þvo Asioonu sijns Framferdes med heitum Ydrunar Andvorpunum, lifande Trw, og breñande Bæn i Heilogu JEsu Bloode, og þerra hana sijdañ med hvijtum Lijn-Dwk FLECKLAUSrar Lifnadarens Betrunar, hreinsande sig af allre Saurgan Holldsens og Andans, og æfram farande med Helguneñe i Guds Otta, 2. Cor. 7. v. 1.

I giegnum FLECKLAUSar Dygdaña-Dyr i Heimenum, liggur hiñ beinaste Vegur, til þess fagra Dijrdareñar Heimkyñes æ Himnum, til þeirrar Nyiu Jerusalem; Jñ uñ hverrar Heilogu Dyr eckert Almeñelegt fær nockursstadar iñgeinged, nie þad sem giorer Andstygd og Lijge; Helldur þeir sem skrifader eru æ lifande Book Lambsens, Apoc. 21. v. 27. Pad eru þeir sem med FLECKLAUSre Trw, hafa uñfadmad JEsum; Med FLECKLAUSre Elsku, og Elskufullre Hlijdne, hallded sier vid JEsum og fylgt epter JEsu, hañ sem er Vegureñ og Sañleikureñ og Lijfed, Joh 14. v. 6. Hañ sem oss hefur til Epterdæmis læted, ad vier skylldum Eptersylgia hañs Footsporum, hvor aungva Synd giorde, eige helldur eru nockur Svik fundeñ i hañs Muñe, 1. Pet. 2. v. 21. 22. DRotteñs Elskuleg og Blessud Born, Eiga ad framgaanga FLECKLAUST.

1. Fyrer GUDE.

2. Fyrer MÖNNUNUM.

I. Fyrer GUDE. Pesse eru Pau Blessudu Spor, er sæ Dijrdlege Madur epter DRotteñs Hiarta Heilagur David Konungur, baud sijnum Elskulega Syne Salomon ad rekia, so hañ mætte fiña Lucku og Farsælld alla Æfe: Pu skallt þeckia þijns Fodurs Gud, og þioona honum af ollu Hiarta, og viliugre Saalu, 1. Chron. 29. v. 29. Petta er sw beina Gata til Blessunar, æ hvoria Posluleñ Heilagur Paulus vijsar sijnum Elskulega Syne Timotheo, og under hañs Persoonu ollum Christnum Moñum, Sierdeiles þeim sem skipader eru til ad vera añara Vegvijsarar, til þess Eilijfa Lijssens: Kostgiæf (seiger hañ) ad audsyna þig Gude Riettskickadañ og Ostraffanlegañ Verka-Mañ, 2. Tim. 2. v. 15.

Vier eigum ad framgaanga FLECKLAUST fyrer Gude, Mijner Elskanleger.

1. Med Elskufullre Alwd og Hræsneslausre Alvorugiefne, sem eiñ Vinur uñgenaſt med sijnum besta og kiærasta Vin, hvorn hañ varast ad styggia sem mest hañ mæ, hvorium hañ stundar ad þiena og þocknast þad besta hañ gierur, Ecke einasta med Orde og Tungu, helldur og eiñeñ med Verke og Sañleika. Gud er vor Ædste og Beste Vinur Born mijn! Hañ Blessadur sijnde æ oss þad besta Vina-Sticke, þegar vier seigiast mættum hartnær hañs verstu Oviner, Rom. 5. v. 10. Pegar vier hofdum uñed til þess Versta, Nefnelega: Guds Obærelegrar Reide og Eilijfra Helvijtes Kvala; Pegar vier hofdum broted af oss þad Besta, Nefnelega Guds æstwdlegustu Elsku, og Eilijfa Himna-Rijkes Dijrd og Sælu, Siaæd! Pa

Opeñ-

Opeñberadest Kiærleike Guds vid oss, i þvi hañ sende siñ Eingieteñ Son i Heimeñ ad vier skylldum fyrer hañ lifa: 1. Joh. 4. v. 9. Gud reyneft oss Daglega hiñ beste Vinur, þott vier sieum Daglega ad reita hañ til Reide med Illgiordum vorum: Lijknarfullur og Myskunsamur er DRotteñ, Poleñmoodur og harla Goodgiarn; Hañ giorer ei vid oss epter vorum Syndum, helldur lætur sijna Naad vera svo Vollduglega yfer þeim sem hañ Ottast, sem þad Himeneñ er haatt yfer Jordune, og þeirra Synder svo laangt fraa þeim, sem þad Austred er fraa Vestrenu: Psalm. 103. v. 8. 11. 12. O! Laatum oss þvi sijdur fara midur vid so Naadugañ Gud, eñ Syndugum ser vid sijna Lijka, sem vier eigum helldur so miklu meira Gott vid hañ ad virda, eñ nockur Syndug Tunga faae þad nooglega wtskijrt: Æ! Elskum Gud; Þvi hañ hefur elskad oss fyrre, og ætlum ecke ad vier elskum hañ Riettelega, nema vier af FLECKLAUSU Hiarta geimum hañs Bodord; Nema vier elskum og æstundum allt þad sem hañ elskar og bijdur; Nema vier hotum og forduslum allt þad hañ hatar og bañar; Þvi þad er Kiærleikureñ til Guds, ad vier hellduni hañs Bodord, og hañs Bodord eru eige þrong, 1. Joh. 5. v. 3. Seiger saa Læresveiñ, sem framar odrum hefur odlast þañ Ypparlega Æru-Titel: Ad JEsus hafe hañ elskad: Joh. 13. v. 23. 26. 27. Cap. 21. v. 7. 20.

Svo heita Ast hefur hiñ Eilijfa Giædskañ bunded vid oss vesæla Adams Nidia, i sijnum Eingietna Syne JEsu Christo, fyrer hvors dijrmætu Forþienustu, ad oss ollum er giefeñ Magt Guds Bornum ad verda, sem aa hañs Allra Helgasta Nafn trwum, Joh. 1. v. 12. Ad ecke slijtur Fader Myskunsemdaña sijna heitustu Hiarta Giædsku vid oss; Ecke bligdast JEsus oss sijna Brædur ad kalla, Hebr. 2. v. 11. Ecke hætter Heilagur Ande DRotteñs, ad bera hañ Vitnisburd med vorum Anda: Ad vier sieum Guds Born, Rom. 8. v. 16. Þott vier hofum Syndena, ef vier af Hiarta hotum Syndena, hofum Leida og Vidbiood aa Syndeñe, og laatum hana ecke viliande eda vijsvitande, drottna i vorum Daudlegum Lijkama; Ecke þott vier þvert i moote vorum Vilia verdum af Sathan svikner, Heimenum lockader, og voru spillta Edle freistader til ad falla i Synd; Ef vier jafnsnart med Blygdun vors Andlites, og Angurfullu Hiarta, þeckium vora Synd, giorum ecke oflijted wr heñe, nie affokum hana moote Samvitskuñe; Ef vier med Hræsneslausre Umvendan, oruggre Trw, og breñande Bæn leitum oss Vægdar og Myskunar, Lijknar og Kvittunar fyrer Syndena, i wtbreiddum Naadar-Fadme DRotteñs, og Blessudum Blood-Undum JEsu Christi; Af hvorium aller Spaameñ bera þad Vitne: Ad aller þeir sem aa hañs Nafn trwa, skule fyrer hañ medtaka Syndaña Fyrergiefning: Act. 10. v. 43. Ef vier af ollu Hiarta, allre Saal og ollum Kroptum, sieliium oss hid dijrasta til ad hata og afleggia Daglega, sem mest þær Syndernar, sem vier erum hellst hneigder til; Til ad elska og æstunda þær Dygdernar best, sem vier hofum sierdeileslegast forsoomad; Jaa, i einu Orde ad seigia: Nær vier kostum

Kapps umm, i Krapte Guds Myſkunarrijkrar Adſtodar, ad læta af Illu, eñ læra ad giøra hid Gooda. Eſa. 1. v. 17.

Slijkum byriar þeim ad vera, ſem vilia Riettelega elſka Gud, og vera þeſs full-truugger i JEſu Nafne, ad þeir ſieu af Gude elſkader: Joh. 15. v. 14. Pier eru mijner Viner (ſeiger vor HErra) Ef þier giored þad, hvad eg bijd ydur: Pañ-ig er nu eingeñ Fordæming æ þeim ſem eru i JEſu Chriſto, þeim ſem ecke gaanga epter Holldenu, helldur epter Andanum. Rom. 8. v. 1.

Vier hoſum Ogiarnañ Mok vid þa ſem vier vitum ad Viner vorer hata: Synd-eñ er hiñ argaſte ſvareñ Guds Andſkote: Pu ert ecke ſaa Gud, hvorium Ogudlegt Athæfe lijkar; Hvor ſem illur er, hañ verdur ecke hiaa þier, ſeiger Heilagur Da-vid, Pſalm. 5. v. 5. Æ Giæt þeſs i Guds Nafne Chriſteñ Madur! Og fyrer Saker þiñar eilijfrar Saaluhiaalpar: Ef þu villt eiga Gud fyrer Vin, þa hatadu Syndena ſvo ſem þiñ argaſta Ovin; Ef þu villt fyrer JEſu Forþienuſtu bijhallda Guds Vingan og Elſku, þa tefdu ecke vid, epter JEſu Bode, og i JEſu Krapte, ad ſeigia upp Syndeñe alla Hlijdne og Holluſtu: Pad eru Guds Anda eigeñ Ord, ſem alldrei kuña ad bregdaſt: Ad ef þu elſkar Heimeñ, 1. Joh. 2. v. 15. Pad er ad ſkilia, Heimſens Ogudlegt Hættalag, Heimſens Syndſamlegar ſaurugar og ſaanijtar Gyrnder og Vellyſtingar, þa ſie ecke i þier Kiærleike Fodurſens; Pa ſiertu ecke af Gude, ſo ſem hañs Oſka-Barn eda Vinur, helldur ſiertu af Fodurnum Fianda, Joh. 8. v. 44. Epter hvors Gyrndum og Vilia þu geingur, ſo ſem hañs Præll og Pienare.

Svo er Elſkañ kroptug jafnvel æ medal Syndugra Maña, ad þegar hun er hre-in og Falslaus, giører hun ſo ſem eitt Hiarta i Tveggia Vina Lijkama, og eiñ Vil-ia i beggia þeirra Hiarta: Myklu framar byriar þier, O þu Elſkulega Guds Ba-rn! ad læta þa Hiartgroonu Elſku hins eilijfa Myſkunſemdaña Fodur, ſem þrijſte honum bleſſudum til þeſs: Ad hañ þyrmde ei ſijnum eigeñlegum Syne helldur gaf hañ wt fyrer oſs alla; Rom. 8. v. 32. Pañ Ovidjafnañlega og breñande Kiær-leika, ſem JEſus audſynde þier, þegar hañ gaf ſitt Lijf i Daudañ fyrer þig; Gal. 2. v. 20. Myklu framar byriar þier, ſeige Eg, ad læta þetta hræra Hiarta þitt til ad hegda þier ecke epter þeſſum Heime, helldur giøra þig umſkiptelegañ med End-urnyung þijns Hugſkots, ſo ad þu meiger reina hver ad ſie goodur, þægur og algiørd-ur Guds Vilie: Rom. 12. v. 2. Pad er ecke ſo Guds ſtraungu Hootaner og hrædeleg Reide, ſo ſem hañs Elſkufull Nædar Fyrerheit og Aſtwdlegaſta Myſkun-ſeme, ſem æ ad typta þig til ad afneita Ogudlegu Athæfe, ſem æ ad leida þig og locka, til ad hafa Gud fyrer Augum þier og i þijnu Hiarta, alla þijna Lijfdaga, og fordaſt ad vera ſambickur i nockre Synd, eda giøra æ moote Guds Bode, Tob. 4. v. 6. Hvort þott þu megner ecke ad hallda, ſo fullkomlega ſem hañs ſtraunga Riett-læte ſamblijdur; Pa bæde ætt þu, og lijka gietur þu, ad ſamverkande Myſkunar-

Krapte

Krapte DRottens, lifad þar epter med so Elskufullre Allwd og Hræsneslausre Allvorugiefne, sem hans mykla Myskun lætur sier velþocknast fyrer JEsum Christum; Jaa, Pu formaatt alla Hlute, allar þær Christendoomsens Dygder, sem hinn Naadnge Gud heimter af þier, so þu meiger Saaluhoolpenn verda fyrer hans Sonar Forþienustu: Allt þad sem til Lijffsens og Gudlegs Athæfes hentar þad allt Formegnar þu ecke af sialfum þier, 2. Pet. 1. v. 3. Helldur fyrer hann sem þig Kroptugann giorer, hvor ad er Christur JEsus. Phil. 4. v. 13. Pad gietur audvelldlega skied, ad sviken Mynt verde fyrer gyllda medteken, af þeim sem ecke bera Skinbragd aa, ad þeckia hennar Giæde; Enn þad er olldunges Omøgulegt, ad Hræsnesfull Augna-Pioonusta, og einasta wtvortes Skin-Heilagleike, verde odruvijs meten enn fyrer hid argasta Gudleyse og Fordæmannlega Synd fyrer DRottens alskygna Auglite; Pad geingur ecke so til sem Madurenn sier; Madurenn sier þad sem fyrer Augunn ber, enn DRottenn aalijtur Hiartad. 1 Sam. 16. v. 7. Giær þessa O þu Elskulega Guds Barn! sem villt framganga FLECKLAUST fyrer Gude og vera hans Barn og Vinur, Hugleid yduglega þau Gullvægu Syrachs Heilræde, er þanneg hliooda: Siaadu til ad þinn Guds Otte sie eingenn Hræsne, og þioona honum ecke med folsku Hiarta. Syr. 1. v. 34.

Hræsnenn er skilgieted Afkvæme Andskotans, sem sialfur er hinn Fyrste Lijgennar Fader, Joh. 8. v. 44. Af hvorium aller þeir stioornast, og hvorium þeir aller sijna hina þægustu Pioonustu, sem hafa eintoomes Yferskyn Gudhrædslunnar, enn Afneita hennar Krapte. 2. Tim. 3. v. 5.

Hræsnenn giorer Gude hinn stærsta Oriett, reiter Gud til hinnar stærstu Reide, og fær af Gude umm sijder hid stærsta og Obærelegasta Straff i eilijfum Kvolum, nema Syndarenn drepe i Tijma þetta Sathans Skrijmsle med heitre Ydran og alvarlegre Ummvendan i Krapte JEsu Bloods, og fyrer Verkan JEsu Dauda; Heyrumm hvad DRottenn talar fyrer Johannis Munn: Eg kiore ad þu værer annadhvort Heitur eda Kalldur; Enn med þvi þu ert Haalfvolgur, þa vil eg skyrpa þier wt af mijnnum Munne. Apoc. 3. v. 16.

Hræsnenn giorer fyrer Guds skiærasta Alvitsku Auga oll Mannsens Verk, ecke einasta onijt og einskis verd, helldur og einenn svivirdeleg og fordæmannleg. Pær bestu Dygder fyrer Monnunum, giorer hun ad hinum verstu Skommum fyrer Gude: Orsokenn er þesse: Ad einn skynhelgur Hræsnare giorer oll sijn Verk (og þau hvad hellst sem hann meinar best vera) ecke af Elskunne til Guds, eda i Til-lite til hanns Dijrdar; helldur af blindudum Kiærleika til sialfs sijns, og sinnar eigenn Vegsemdar, til ad utvega sier Virdingar og afhalld i Heimenum, Vinattu og Hroosan af Heimenum; Ad eingenn giete annad sagt; Enn hann sie goodur christenn, og hann meige kioosa Lofstijr af hvors Manns Munne: Hann fordast nockurn veigenn, openbera Stoor-Glæpe, og klijner a þad Nafnenu, ad lifa hid ytra Sidsamlega, ecke

af þvi, ad hañ bligdest vid þad, ad styggia Gud, eda flecka sijna Samvitsku; Helldur hins vegna, ad hañ ottast meira ad þvi Meñena eñ Gud: Þeir vila ecke koma sier ut ur Hwse hia Moñunum med þvi; Þeir vilia ecke þurfa ad bera Kiñroda, eda mæta Alase og Straffe af Moñunum, fyrer þad þeir sieu nockrer Gudleisingiar: J einu Orde ad seigia: Þad er þeirra einasta Astundan og Eptærleitne, þar i er einasta þeirra Christeñdoomur iñefaleñ, ad þeir hid ytra sijnast ad vera gooder fyrer Moñum; Eñ þott þeir sieu fuller Hræsne og allra Odygda fyrer Gude hid Jñra, þar uñ giora þeir sier litla edur aungva Þanka, verande þañeg Skilgietner Brædur Phariseaña; Hvørra Synda Svijvirding og Straff JEsus so berlega wtmaalar, og yfer hvorium hañ so optlega Vei hroopar: Matth. 6. og 23. Giæt þess þar fyrer i DRottens Nafne Christeñ Madur! Ad allt hvad þu giorer med Ord edur Verk, og ætlar til, ad hinum Alvitra Gude meige vel lijka, eñ þier sialfum so sem hañs Vin og Þienara vel sooma; Þa giorer þu þad af so þeitum og hreinum Kiærleika, i so Einfolldum og Einlægum Asetninge, til ad gaanga þijnum Himneskum Hiartans Fodur verduglega til allrar Þocknunar, og verda Avaxtarsamur i øllum goodum Verkum, Col. 1. v. 10. og 11. So sem þu villt fyrer hañs Heilaga Auglite funden vera er Rannsakar Hiortnn og Nijrun̄, og vill gialld a Einum og sierhvørium epter þeirra Verkum, epter Avexte þeirra Giørninga, Jer. 17. v. 10. Laat þad ætijd vera best fyrer Gude sem nærst þier er, og þad er þitt Hiarta; Kostadu Kapps um̄, ad þijn Gudrækne og Goodverk skijne hvad fegurst og skarte hvad best, fyrer DRottens alskygna Auga, hvort ed allstadar og ætijd; sier og horfer a allar þijnar Hugreñingar, Ordrædur og Athafner; Miñstu þess þvi Barned DRottens! Ad hvad helst sem þu fyrer Guds Anda Krapt, hyggst gott ad giora, sie yfer allt fram̄ giordt i þeirre Veru, og stefne fyrst og fremst til þess Takmarks, ad JEsu Dijrd meige af þier wtbreidast, JEsu Naadar-Vilie i þier Eflast og Avaxtast, og þu meiger Riettelega i Einfalldleik þijns Hiarta þocknast þijnum JEsu, ei alleinasta med Þioonustu fyrer Augunum, Moñunum til Þocknunar, helldur so sem Þienare Christi. Eph. 6. v. 6.

## Vier eigum ad fram̄gaunga FLECKLAUST fyrer Gude, Mijner Elskañleger.

2. Med Sonarlegre Hlijdne og Heilagre Poleñmæde; Ecke Olijkt og eitt gott Barn um̄geingst med goodum Fodur, hvørs Vilia þad giorer med Alwd og Undergiefne; Hvørs Hyrting þad lijdur med Þogn og Poleñmæde: Gud er allra vor Beste og Ædste Fader og Frelsare, Þad er hañs Nafn ad Eilijfu, Esa. 64. v. 16. Hønum erum vier aller skylduger um̄ hina Hiartgroonustu Elsku, sem i þvi sie iñefaleñ: Ad vier ecke einasta hofum hañs Bodord, helldur og eiñeñ holldum þau; Joh. 17. v. 21. Um̄ hina audmiwkustu Hlijdne, er oss byriar ad audsyna, sier

delles

deiles med H. Poleñmæde i Hormungum þeim sem honum epter siñe Alvijsre Raadstofun Þocknast oss a Herdar ad leggia.

Þott ad Bikar Hormungaña sie alldrei so Beiskur og fleite fullur, Psalm. 80. v. 6. Þa er þad þo vor stærsta Skyllda og ædsta Æra, ad þiggia hañ med þacklaatlegre Poleñmæde; Jaa, hañ heilsusamlega Kaleikeñ skulum vier medtaka og Nafned DRottens vegsama, Psalm. 116. v. 13. Þvi þar er þo ecke i honum eiñ hiñ miñste Drope, nema sa sem skeinktur er fyrer oss, af Guds fodurlegre Forsioonar Hende; Og þvi skyllde þad þa ecke vera oss alltsamañ kiærkomed, sem Fodur Myskunsemdaña og Gude allrar Huggunar þocknast oss ad uthluta? Allt þad sem vier lijdum mootstædelegt i Heimenum, þad lijdum vier epter hañs alvijsre Raadstofun og Fodurlegum naadar Vilia; Hañ hefur taled øll vor Hofud Haar, og eckert af þeim kañ aan hañs Vilia a Jord ad falla: Matth. 10. v. 30. Þocknest honum ad vitia vor med Mootlætenu, eñ svipta oss Medlætenu, þa ber oss hvervetna þoleñmoodlega þacklaatum, ad hugga oss þar vid: Ad þad sem vier hrepptum hefur hin eilijfa Giædskañ þeckt og sied oss laangtum nytsamlegra og naudsynlegra helldur eñ hitt, hvoriu vier slepptum; Þvi þad Ord stendur stødugt ad eilijfu: Þeim sem DRotteñ ottast, þiena aller Hluter til hins Besta, Rom. 8. v. 28. Æ! Uppljukum þvi alldrei vorum Muñe til ad mogla a moote naadugum Vilia og alvijsre Raadstofun DRottens, hvor oss er ætijd fyrer bestu; Laatum oss taka baadum Hondum a moote honum med Sonarlegre Hlijdne og audmiukre Poleñmæde, ad Dæme hins H. Davids seigiande: Eg vil þeigia, og ecke mijnum Muñe uppliuka, þviad þu DRotteñ giorder þad: Þu munt þvi vel af Stad koma; Psalm. 39. v. 10. Liggium þangad til under þeirre Byrde, sem hiñ naadnge Gud leggur oss a Herdar, ad honum blessudum lijkar ad lietta heñe af oss, giætande Davids Orda, og geimande Davids Hiartalag, er hañ talar a þeñañ Haatt: Myskuna þu mier Gud! Myskuna þu mier; Þvi a þig treister Saala mijn, og under Skugga þiña Vængia hefe eg mitt Athvarf, þar til su Ogiæfañ er hiaalideñ: Psalm. 57. v. 1. & 2. Þeinkium ætijd og yduglega til þess Born mijn, Midt i Þiaaningum vorum, ad Gud hefur hiñ stærsta Riett til ad straffa oss: Vier erum Leyreñ, hañ er Leyrkiera Smidureñ, Jer. 18. v. 6. Og þvi ar hañ blessadur friaalst ad fara med oss so sem honum lijkar: Þocknest honum ad smellta oss i heitum Hormungaña Ofne, þa þurfum vier ecke ad bregdast okuñuger vid þad; Þvi so plagar hañ ætijd ad breita vid þa sem vera skulu heilagt Kier til Heidurs, sem Hwss-Herrañ kañ ad handtiera, og til alls goods Verks reidubwed. 2. Tim. 2. v. 21.

Þar ad auke brwkar Gud hina stærstu Lijkn, Medaumkan og Myskunseme i þvi ad hyrta oss med Hormungunum; Hañ lagar añadhvort vora Byrde epter vorum Kroptum eda vora Krapta epter vorre Byrde; Lijka so sem vier hofum miked

af

af Christi Pijnu so verdum vier og rijkuglega fyrer JEsum Christum huggader : 2. Cor. 1. v. 5. Pad er vor ædsta Æra ad feta þar Bloodugañ Hormungaña Ferel a epter, þar sem Frelsareñ vor JEsus er geingeñ a undañ ; Hañ bar þañ þijngsta Kross fyrer oss þañ Tijd hañ var fyrer vorra Synda Saker særdur, og fyrer vorra Misgiørda Saker lemstradur, Esa. 53. v. 8. Hañ vill og eirneñ bera þad þijngsta af Krossenum med oss, nær vier liggium under honum, med hañs Syne, epter hañs Vilia, og honum til Hlijdnes og Pocknunar ; Hañ vill vera hia oss i vorre Neyd, oss þadañ Utryckia, og ad eylijfu Vegsamlega giøra : Psalm. 91. v. 15. Ef vier Vanmegnunst, þa styrker JEsus oss : Hañ lætur ongvañ Freystast yfer Megn fram, helldur giefur hañ Freistingunum þañ Enda, ad vier fæum stadest, 1. Cor. 10. v. 13. Ef vier hrosum, þa bidur JEsus fyrer oss, og hefur Medaumkan med vorum Breiskleika; Pañ marda Reirleggeñ vill hañ ecke i sundur brioota, nie þañ Lijtt-logande Hør-Kveik wtslockva : Esa. 47. v. 3. Pegar vier erum ecke leingur fæerer fyrer ad strijda, þa helldur JEsus uppe Frid-Skillde gledeleguftu Sigurviñingar, Hañ vill þa vorn Hrigdar-Seck i sundur slijta, og umgyrda oss med Eilijfum Fognude, Psalm. 30. v. 12.

O! Læatum oss þvi med Poleñmoodu, Viliugu, Stadfostu og Packlætu Hiarta, gaanga wt i þa Orustu sem oss er tilskickud, og lijta til JEsum þess Uppbyriara og Fullkomnara vorrar Trwar; Pvi ef vier lijdum med honum hier Tijmañlega, þa verdum vier upphafder til Dijrdareñar med honum Eilijflega. Rom. 8. v. 17.

### Vier eigum ad framgaanga FLECKLAUST Mijner Elskañleger.

### 2. Fyrer MØNNUNUM.

Gulled er mest meted af øllum Jardneskum Gersemum, vegna siñar prijdelegu fegurdar ogg aagiætrar Natturu ; Eitt riettskickad Guds Barn, sem med flecklausu og Raadvøndu Framferde skijn so sem Lioos midt a medal þessrar vondu og hreckvijsu Kinsloodar, Phil. 2. v. 15. Sem hvær sitt Hiarta, siñ Muñ og sijnar Hendur i Meinleisenu, Psalm. 73. v. 13. Pad er þusundsiñum framar dijrmætt i DRotteñs Naadar Auglite : Eñ O Herra Gud ! Hvor vill siña Hreinañ hiaa þeim, þar eingeñ er hreiñ ? Par finst þo Gull i Ymsum Stodum, þoott þad meige maklega faagiætt heita : Eñ O ! Hvad leinge maa nu sa leita, O! hvad vijda maa sa fara sem a þessare sijdurstu og verstu Oallda Tijd vill siña eiñ sañañ Israelita, i hvorium eingeñ Svik eru ? Joh. 1. v. 47. Fals og Flaræde, Ligar og Raunsleitne, Underhyggia og Svikseme, gaanga nu Fiollunum hærra, og þad jafnvel medal þeirra sem christner kallast ; Hvad margur er sa, sem leitar siñar Uppheſdar, med siins Naunga nidurdrepe ; Giætande þess lijted, ad alldrei veit nær, eñ hiñ vonde Haman ma siaalfur med Smaan gista þañ Gaalga, er hañ upprei-

ste

ste handa hinum frooma Mardochæo? Est. 7. v. 10. Hvad margur sa sem leitar sijns Abata med aññara Skada, og æskelest siñ Broodur i Hondlaneñe, gesande ongvañ Gaum ad þvi: Ad DRotteñ er hañ sem hefner alls þessa? 1. Tess. 4. v. 6.

Eige tendra Meñ Lioosed og setia þad under Mæle-Ask, Helldur yfer Lioosa halldeñ, so þad lijse ollum þeim sem i Hwsenu eru; So sem Lausnareñ vor JEsus vottar: Matth. 5. v. 15. Giæt þess! þu christeñ Mañeskia, ad ongvañveigeñ hefur hin eilijsa Giædskañ teked þad so nærre sier, ad frelsa þig af yfervallde Myrkraña, og setia þig iñ i sitt Rijke, Col 1. v. 13. Til þess ad þu skyllder ad Ofekiu meiga hafa Samlag vid ofriooffsom Verkeñ Myrkraña, Eph. 5. v. 11. Og gioraſt samdauna Jllsku og Hreckviise Heimsens, sem allur liggur nidursockeñ i þvi vonda; O Nei, O Nei! Christeñ Mañeskia! Gud hefur elskad þig; JEsus hefur endurleyst þig; Heilagur Ande hefur upplijst og helgad þig, til þess, ad þu skylldr er læta þitt Lioos, Lioos Trwareñar, Lioos Gudrækneñar og goodra Verka, lijsa fyrer Moñum, so adrer siae þijn Goodverk, og Dijrdke Fodur þiñ a Himnum. Matth. 5. v. 16.

Þu ætt ad Framgænga Flecklaust fyrer Moñunum; Ad breita vid þijna Yferbodara med Lotuing, Elsku og Audsveipne; Vid þijna Jafningia, med Raadvendne, Fridsemd og Kiærleika; Vid þier Miñehaattar, med Medaumkvan, Riettvijse og Hoogværd, allt i soñum Drotteus Otta, Lætande alldrei Yferstijga þig þad Vonda, helldur Yferviñande þad Vonda med goodu, Rom. 12. v. 20. Brædurna Elskande, Gud Heidrande, Konungeñ Virdande.

Saa añar eigenlegleike sem aller helger DRottens Þienarar hlioota af ollum Lijfs og Saalar Kroptum ad æstunda, er saa:

## II. Ad giora Riett.

Þad er plagsidur Veralldareñar Herra og Hofdingia, ad þeir giefa sijnum Þienurum Log, og leggia Embættis Moñum fyrer vissar Reglur hvar epter þeir skule haga sier i sijns HErra Erendagiordum: Konungur Konungaña og DRotteñ DRottnaña, eilijfur og almættugur Gud, hefur oss ollum christnum Moñum auglijst og opeñberad ægiætt Form og Saaluhiaalplegar Lærdooms Reglur, hvar epter aller vier, sem hañs andleger Þienarar og elskuleg Born heita og vera vilium, eigum af fremsta Megne ad hegda oss og haga i ollum vorum Verkum og Athofnum, fyrer hañs H. Auglite hier i Heime; Þad er hañs hæblessad Lijfsens Ord, og þar iñe opeñberadur Rædugur Vilie: Þier skulud ecke giora sierhvad sem riett sijnest ad vera fyrer ydar Augum, helldur skulud þier hallda allt þad sem eg bijd ydur, ad þier giored þar epter, seiger DRotteñ sialfur i gegnum Mosis Muñ, Devt. 12. v. 32. Eingeñ kañ sa ad giora Riett fyrer Gude, eda fiñast hañs trwr og merkur Þienare, sem ecke filger þessare blessudu Reglu; Allt þad sem er fyrer utañ

hann; Allt þad sem heñe er mootstrijdande; Allt þad sem ecke er samkvæmt og snid-ed epter þeim blessada Mæle-Prœde, sem i Orde DRottens er nidurlagdur, þad er alltsamañ Synd og Raanglæte; Pad er alltsamañ Svijvirdelegt og fordæmanlegt; Pad er alltsamañ sa breide Vegur sem liggur til Glotunar: Hinar fegurstu Dygd-er fyrer Moñum, eru su versta Svijvirding fyrer Gude, þegar þær framkoma ecke af þvi Hiartalage, eru ecke giørdar i þeirre Veru, og ecke epter þeim Hætte, sem hiñ naaduge Gud hefur skipad og fyrerskrifad i sijnu Haablessada Orde: Oll su plantan sem sa Himneske Fadereñ hefur ecke plantad, mun upprætast; Matth. 15. v. 13. Pad er ad skilia: Allt þad sem Mañeskiañ i siñe Gudsdijrkan og christ-eñdooms Ydiu fiñur uppa, fremur og adhefst af sijnum eigeñ Hugþootta, eñ hyrder ecke um ad hafa Guds Ord og Anda fyrer siñ Læremeistara; Guds Vilia og Gu-ds Otta fyrer siñ Leidarvijser, Æ! Pad er allt samañ rangt, einskis verdt, jaa, Eintoomes Synd og Svijvirding.

Guds Heilogu Ord, eru bæde hin Ædstu, og lijka einustu Riettinde; Pad er allt Riett sem þeim er samhlioodа, allt Raangt sem þeim er mootstrijdande; Ad fylg-ia þeim, er saa einaste Vegur sem liggur til Lijfsens, og aller þeir sem hañ rata vilia, þeir hliota ætijd ad giæta þess, og meiga alldrei viliande eda vijsvitande gleyma þvi sem DRotteñ baud Josua Fordum, aa heñañ Hætt: Pu skallt hallda og giora alla Hlute epter mijnu Bodorde og vijkia þar hvorke fraa til Hægre nie Vinstre Hand-ar: Jos. 1. v. 7. Eiñ Vegfarande Madur, sem vill naa med Heilu og Holldnu aasettum Nætur-Stad; Hañ hlijtur ecke einasta ad vita Veigeñ, helldur og eiñeñ hallda sier vid hañ Kostgiæfelega; Guds Heilagt Ord, og þar iñe auglijstur Naad-ar-Vilie DRotteñs, er þad sem vier Christner Meñ, eigum ad þeckia og trwa, giora og Ogiørt laata, so Gude meige velþocknast fyrer JEsum Christum; Pad er saa Einaste Vegur, vid hvørn sierhvør i siñe Stiett og Kallan, hlijtur sier vand-lega ad hallda, ef hañ vill gaanga DRottne verduglega til allrar Pocknunar, og be-ra wr Bijtum Endalok siñar Trwar, sem er Eilijf Saaluhiaalp.

Peir sem bera hañ fagra Aaronis Skrwda, og eiga ecke einasta sialfer ad þeckia og vita þad hid Rietta (þvi Prestsens Varer eiga ad vardveita Lærdoomeñ, so Meñ sækie Riettindeñ af hañs Muñe, Mal. 2. v. 7. Helldur og eiñeñ, bæde med Heilsu-samlegum Lærdoome og Gudrækelegum Lifnade ad gaanga aa undañ, og vijsa ød-rum Riettlætesens Gøtu; Dan. 12. v. 13. Peir eiga hvørge añarstadar ad laata sig optar fiña, eñ sitiande vid DRotteñs Fætur; Peir eiga aungva Speke so miøg ad elska og aastunda, ydka og athuga, so sem þa, ad upplijsast og frædast af hañs Heilogu Ordum, Devt. 33. v. 3. Peir hliota med breñande Bæn, med Gud-rækelegre Yfervegan, med Obreittre Kostgiæfne ad uppausa Vatn Hiaalprædesens Speke, af þessum Blessunar Bruñe, Syr. 15. v. 3. Ef þeir vilia giora sitt Em-bætte Trwlega, og gieta giørt sig sialfa hoolpna, og þa sem þeim heyra: 1. Tim. 4.

v.

v. 16. Þeir hlioota ad leggia hina stærstu Alwd aa þad, og sijna hina stærstu Framfor i þvi, ad prijda so sitt Heilaga Embætte med Riettum Lærdoome; Ad prijda so Lærdoomen med Raadvondu Framferde, ad Sofnudurenn sem Gud hefur wtvegad med sijnu Bloode, Act. 20. v. 28. Og sett þa yfer, heyre þad eina af þeirra Munne, og siaae þad eina af þeirra Framferde sem Riett er, og hann meige frædast og betrast af, til þess eilijfa Lijfsens: Jaa, þoott Riettindenn væru vorden Landflootta i Heimenum; Þa ættu þeir sem eiga ad vera Guds Munnur til Syndugra Manna, og Sendebodar i Christi Stad, 2. Cor. 5. v. 20. Ad laata þau ætijd finnast i sijnu Hiarta, ætijd heyrast i sinne Kienningu, ætijd þeckiast i sinne Umgeingne; Ef þeir kienna vel, enn lifa Illa; Ef þeir tala þad sem Riett er, enn giora þad Raunga, Æ! þa eru þeir Svivirding fyrer Gude, Drep-Soott i christelegre Kyrkiu, og hiner vestu Andskotar sinnar eigenn Velferdar; Þeir Apturloka Himna-Rijke fyrer Monnum, og sialfer koma þeir þar ecke Inn. Matth. 23. v. 13.

Þa giorer eirn Guds Kiennemadur RETT; Þegar hann hefur sijna Lysting i Logmaale DRottens, og talar umm hanns Riettinde bæde Daga og Nætur; Psalm. 1. v. 2. Þegar hann andsyner sig i ollum Hlutum, so sem DRottens Þienara, og tekur sier fyrer þvi trwann Vara: Ad hann hverke med Orde eda Verke, Lærdoome eda Lifnade stygge Gud (hvörs Naadar og Blessunar hann maa vænta sier þvi rijkuglegar, sem hann þioonar Gud Trwlegar: Hvörs Reide og Bolvan haanger yfer hanns Hofde þvi hrædelegar, sem hann giorer Verk DRottens, og sitt Embætte Sviksamlegar, Jer. 48. v. 10.) Saurge sijna Samvitsku (hvöria honum odrum framar byriar ad geima hvervetna Oskierdta bæde vid Gud og Menn, Act. 24. v. 16.) Hneixle sijna Tilheyrendur (hverra Bloods hinn Riettlaate Doomare, DRottenn Allsheriar vill krefia af hanns Hende, Ezech. 33. v. 8.) Eda sie i nockurn Maata viliande og vijsvitande Orsok til þess, ad hanns Heilaga Embætte, verde Saker hanns Vanheilaga Framferdes Ovyrdt og lastad, 2. Cor. 6. v. 3.

Þegar hann JEsu vegna audsyner sig ad vera Þienara sinnar Tiltrwadrar Hiardar; Ibid. Cap. 4. v. 5. Þienara þeirra Faafroodu, til ad uppfræda þa; Þeirra Veiktrwudu, til ad styrkia þa; Þeirra Siwku til ad vitia þeirra; Þeirra Villuraafande til ad Leidrietta þa; Þeirra Yverbrotnu og Ogudlegu, til ad straffa þa og aaminna bæde med Blijdu og Strijdu, til ad laata einskis Medals Ofreistad, og forsooma ecke Tækefære, ad snwa þeim aptur af þeim breida Glotunarenar Veige, aa þa Leid sem til Lijfsens liggur, og þad med allre Þolennmæde og Kienningu. J einu Orde ad seigia: Þegar eirn Guds Kiennemadur helldur ecke sialfur sitt Lijf dijrmætt, so hann faae fullkomnad sitt Hlaup med Fagnade og þa Þioonustu sem hann hefur medteked af JEsu, til ad vitna Evangelium umm Guds Naad. Þa giorer hann Riett, Act. 20. v. 24. Þa lifer hann hreinn af allra Bloode, og deyr Riettlaatur fyrer JEsu Blood.

Þeim sem beita eiga Sverde þeirrar Veralldlegu Valldstiettar til Hefndar yfer Illvirkiana, eñ Goodum til Lofs, 1. Pet. v. 14. Er olldunges einsætt ad elska þad ad Giora RIETT, ef þeir vilia vænta þess, ad fara Tijmañlega og Eilijflega vel; Þvi ef þeir Riettlæta hiñ Ranglaata, eñ Fordæma hiñ Saklausa; Prov. 17. v. 15. Ef þeir laata Magt edur Myndugleika hins Volldugа, Rijkedæme og Mætur hins Auduga, Villd edur Vinaattu, Hatur edur Heiptrækne, Fylge edur Tillögur añra Maña, villa sitt Hiarta fraa þvi sem þeir vita fyrer Gude og siñe Samvitsku Riett vera, til ad binda þar um sem særa skal, til ad særa þar sem græda ætte, til ad ælykta þad Vonda Gott, edur þad Gooda Vondt, Esa. 5. v. 20. Æ! þa eru þeir Svijvirding fyrer Gude, og hlioota ad Liktum, nema þeir i Tijma Ydran giore, ad falla i Reide-Hendur DRottens, sem þo er hrædelegt, Ebr. 10. v. 31. Og ollum ad Eilijfu Obærelegt.

Þa giorer ein Yfervallds-Persoona RIETT, þegar hun hefur Gud þañ Ædsta Doomara sier fyrer Hugskots Sioonum, midt i þvi hun geingur sijna Dooma, og giorer sitt Embætte ætijd i hañs Otta, hafande eckert Mañgreinar Allit i Doome, helldur heyrande, so vel hiñ Miñsta sem þañ Hædsta, so vel Vesælañ sem Vollduġañ, Fautækañ sem Rijkañ, Ovin sem Vin, giætande þess ætijd: Ad Doomara Embætted er DRottens; Devt. 1. v. 17. Þegar hun elskar aungvañ Abata, svo sem þañ, ad Guds Dijrd meige hvad vijdast utbreidast, og siña underhafande Tijmañleg og Eilijf Velferd hvad best bloomgast og aavaxtast; Þegar hun sæker epter ongre Upphefd, so sem þeirre ad þocknast DRottne, og standa Trulega i sijnu Kalle og Embætte; Þegar hun sijner Medaumkvan i þvi ad biarga hinum Naudstadda; Vandlæte i þvi, ad hiaalpa hinum Underþrickta; Gudhrædslu i þvi, ad Straffa og Leidrietta þa Vondu og Þverbrotnu; Ad Elska, Vyrda og Vernda þa Froomu og Raadvondu; Þegar hun giæter þess til ævarande Amiñingar, og hefur þvi hiñ stærsta Riett til, ad gledia sig vid þad, til Æskelegustu Velferdar, sem DRotteñ sagde til Josuam Fordum, aa þeñañ Haatt; Jos. 1. v. 8. Laat mijna Logmaals Book ecke koma fraa þijnum Muñe; Helldur þeink um hana Dag og Noott, so þu meiger hallda og giora alla Hlute þar epter; So skal þad luckast þier vel i ollu þvi þu giorer, og þu munt vijslega kuña þier ad hegda.

Þeir sem hiñ Naaduge Gud hefur Born og Hiu til Umsioonar aa Hendur falled i Hussstioornar-Stietteñe; Jaa, aller þeir sem sijna eigeñ Velferd elska, hvort helldur þeir eru Prælar edur Frelsingiar, Yferbodner eda Undergiefner, hlioota ad giora RIETT fyrer Gude og Moñum i Heimenum hier Tijmañlega; Ef þeir vilia nioota hins Ædsta Gooda, og Yndesfullustu Dijrdar og Sælu hiaa Gude og med hañs Utvolldum aa Himnum uppe Eilijflega. Þvi ad eins fær Þienareñ giort sitt Embætte med Æru, og Framkvæmt Riettelega sijns Herra Eyrende; Ef hañ hefur hañs Bod og Vilia ætijd sier fyrer Augum: Þvi ad eins er þad fyrer Guds

Anda

Anda Krapt, mögulegt ad þeir Yferbodnu fære stioornad sijnu Hwse RJETT og Farsællega; Ad þeir Undergiefnu fære geinged sin Veg RJETT og Ostraffanlega, Ef þeir hallda sier epter Ordum DRottens. Psalm. 119. v. 9. Hvad mun þvi vallda Brædur mijner, ad Guds Otte er so sialldseingen Manna a medal, og Riettvijsen ser (ef eg mætte so ad Orde komast) a Vonarvol; Ja, Par eru so fa Heimile, hvar Men siae Merke til þess ad hun sie þar ad nockre Stadfestu til Vistar Raden? Hvad mun þvi vallda, seige eg, anad en þad, ad Guds Ord er so lijtt virdt og elskad, So siallðan athugad og um Hond haft, og af so faum Hwssbændum og Hiwum, Forelldrum og Bornum geimt og vardveitt i goodu og Sidsomu Hiarta, so þeir fære þar af Avoxt i Polenmæde? Luc. 8. v. 15. Eg mun tala ofdiarst ef eg seige: Ad þar sieu ecke allfa Heimile, hvar ed anadhvort meige fina Heidinglega Bwksorg og Ogudlegt Aurasafn, Eda anars Vegar O-Christelegt Hyrduleise, Svall og Lete i Hwsstioorn Mana, og Handtieran þeirra Lijfs-Næringar; En vid hitt voga eg Ohikadur ad standa, ad þeir eru langtum færre en skyllde, sem giæta þeirrar Blessudu og eina bestu Hwss-Reglu, er DRotten gaf sijnu Foolke Jsrael Fordum, Devt. 6. v. 6. 7. 8. A þenan Hatt: Pesse Ord sem eg bijd þier i Dag, skalltu leggia uppa Hiartad; Og þu skallt brijna þau alltjafnt fyrer Bornum þijnum, og Ræda um þau nær ed þu situr i þijnu Hwse, og nær ed þu geingur um faren Veg, nær ed þu leggur þig nidur, og stendur upp; Og þu skallt binda þau til eins Merkes a þijna Hond; Og þau skulu vera þier Miningar-Teikn fyrer þijnum Augum.

Pa giorer ein Hwss-Fader RJETT, þegar han, ecke so med Ordum Munsens, so sem af Root Hiartans, semur þvilijkan Sattmala vid sijna eigen Samvitsku, so sem fyrer Guds Auglite: Ad han og hans Hws vilie þioona DRottne, Jos. 24. v. 15. Pegar han skijn so sem Lioos, med Falslausre Gudrækne, og Gudrækelegre Forsialne i sijnu Hwse, uppelur sijn Born og Hiw i Aga og Umvondun til DRottens, Eph. 6. v. 4. Leitar fyrst Guds Rijkes og hans Riettlætes, Matth. 6. v. 33. Og lætur sier sijdan med Packlæte sijna Luchu nægia.

Pa giorer eitt Barn og ein Pienare RJETT, þegar han þioonar so Monunum, ad han meige yfer alla Hlute fram þocknast Almattugum Gude; Pegar han hlijder sijnum Forelldrum og Yferbodurum epter DRottens Bode, i DRottens Otta af Hiarta, med goodum Vilia, Laatande sier þikia, so sem han þioone DRottne, og eige Monum. Eph. 6. v. 7. 8. Pa giorer sierhvor RJETT i sine Stiett og Kallan, þegar han tekur Guds Ord og Vilia til Raads med sier i ollum Efnum, bijhalldande þvi i sijnu Hiarta, so han Syndgest ecke a moote sijnum Gude, Psalm. 119. v. 11. Pegar han akallar Gud, med sine Raad og Blessan til Fulltijnges i ollum Athofnum; Ecke einasta med Davids Ordum, helldur ollu framar med Davids Hiartalage, er han seiger: DRotten! Kien þu mier ad giora epter þijnum

 Vilia;

Vilia; Þviad þu ert miñ Gud, þiñ goodur Ande leide mig a riettum Veige! Psalm. 143. v. 10. Þegar hañ Ottast Gud i allre siñe Hegdan, kostar Kapps uñ, ad hafa hreina og gooda Samvitsku i allre siñe Hondlan, og varpar allre siñe Ahyggiu uppa DROtteñ i sierhvorium aliggiande Naudsynium, 1. Pet. 5. v. 7. Slijkum mun ad Sijdustu Eilijflega Vel Vegna.

Sa Þridie Eigeñlegleike, sem aller Heilager DROtteñs Þienarar hlioota af fremstu Kroptum ad Athuga,

Er Sa:

# III. Ad tala Sañleikañ wt af Hiarta.

Þad er ad vijsu ein agiæt Edla-Dygd, sem er harla Naudsynleg sierhvorium Christnum Mañe, hvor ed med Gudrækelegre Varwd og Andlegre Forsiaalne, hlijtur ad umgangast i Vondum og Hreckvijsum Heime þessum; so sem Saudur a medal Varga, Matth. 10. v. 16. Ad hañ vite ad Þeigia i Tijma og Tala i Tijma: Þad er hvorke þienañlegt til Guds Dyrdar, og ecke a þad helldur hid miñsta skylldt vid þa Riettskickudu Einfelldne og þañ sana Guds Grandvarlegleika sem Paulus uñ talar, 2. Cor. 1. v. 12. Og a ad frañkoma af Hiarta, og Augliijsast i Ordum og Umgeingne allra Hreinhiartadra Guds Barna: Ad tala ætijd allt þad sem Mañe bijr i Skape: Vijst er SANNLEIKURENN jafnañ Sagna bestur, þegar hañs þarf vid, til ad vijdfrægia Guds Dijrd og styrkia Naungans Velferd; Eñ sa sem an Naudsynia hefur ætijd Hiartad a Vorunum, hvorneñ sem astendst, og hvar sem hañ er staddur, hañ giorer optlega ad efla þad Vonda, eñ ecke aptra þvi, ad nidurbriioota eñ ecke uppbyggia Naungans Kiærleika; Ad setia bæde sijna eigeñ og añara Velferd i Hættu, eñ vardveita hana ecke med Ugg og Otta.

Sa sem vill Riettelega taka a þvi Trwañ Vara, hvenær þar sie Tijme til ad Þeigia og Tijme til ad Tala, Præd. 3. v. 7. So ad i ollum Hlutum verde Gud dijrdkadur fyrer JEsum Christum; Hañ skyllde ætijd athuga eñ alldrei forsooma ad hafa Gud fyrer Augum, og ganga i hañs SANNLEIKA; Þvi þa gietur hañ alldrei til Skañar orded. Psalm. 26. v. 3.

Nu þott þessu sie þañveg vared B. M. ad þad sie ecke gott og Gudrækelegt, ecke nytsamt edur naudsynlegt, ad tala alltijd allañ SANNLeika sem Madur veit; Þa giæta þess þo aller þeir ed Guds Otta og siñar eigeñ Saaluhiælpar giæta vilia; Ad þad er hin versta Svijvirding fyrer hinum alvitra Gude, hin stærsta Vidurstygd fyrer ollum Heidvyrdum Moñum, ad tala þvert a moote þvi med Muñenum, sem Madur veit ad riett og satt er fyrer Gude og siñe Samvitsku i Hiartanu; sierdeiles þegar

ar þad skiedur af einum Yferbodara, og a medal Yferbodaraña af einum Kieñefodur Christneñar, sem hefur a Hende Raadsmensku yfer DRottens dijrustu Leindardoomum, 1. Cor. 4. v. 1. Og er skipadur til þess af hinum allra hæsta Gude, ad hañ skule kieña allañ þañ SANNLEJKA og ongvu af honum leina sem hañs Tiltrwudum Sofnudum er nytsamlegur til Saaluhiaalpar; Act. 20. v. 20. Ad hañ skule þeckia og elska SANNLeikañ, kieña og Priedika SANNLeikañ; Vera añara Fyrermyndan i Trwñe og SANNLeikanum, 1. Tim. 2. v. 7. Og hallda fast vid SANNLeikañ allt til Daudans; Æ! Þegar hañ talar ecke SANNLeikañ wt af Hiarta, af Otta fyrer Hofdingiunum, so hañ misse ecke þeirra Hylle, og vogar þvi ei ad upphefia sijna Raust so sem adra Baasunu, og seigia Foolkenu til þeirra Synda, og Hwsenu Jacobs til þeirra Misgiorda; Es. 58. v. 1. Af Hræsne fyrer Heimenum, so hañ hreppe ecke hañs Ovinattu, eñ giæta þess ecke, ad þvilijkt Veralldareñar Vinfeinge, er hiñ stærste Guds Ovinskapur, Jac. 4. v. 4. Og leider epter sig þad obærelegasta Straff, þañ skielfelegasta Reikningskap; Af Lete og Dadleise, i hañs H. Embætte, ad hañ neñer ecke ad giora sier nockurt Omak fyrer, og hyrder ecke um, ad sijna nockra Framkvæmd i þvi, ad ala þa Guds Hiord sem honum er a Hendur faleñ; Ad predika Orded i haglegañ og ohaglegañ Tijma (þad er: Hvort sem Heimenum lijkar þad betur eda verr; Hvort sem Meñ aviña þar med miked eda lijted) ad straffa Ogna og aamiña med allre Poleñmæde; 2. Tim. 4. v. 2. Þegar hañ talar ecke þeñañ Sañleika ut af Hiarta, þa ber hañ ecke, helldur dregur þad Nafn ad heita Saalusorgare, eñ er miklu framar riettnefndur, bæde siñar eigeñ, og allra þeirra sem fyrer hañs forsomun tapast, Saalna fordiarfare og Fargare; Jaa, DRotteñ siaalfur vill krefia siña Sauda af þeirra Hende: Ezech. 34. v. 10. O HErra Gud! Hvor kañ þa ad hialpast? O Naaduge Fader! Vær þu Veikleika vorum! Iklæd þijna Kieñemeñ med Hialprædenu, og blessa þeirra Erfide, so þeim giefest Orded med dristugre Opnan sijns Muñs, ad tala þad sem tilheyrer; Eph. 6. v. 19.

Sæler eru hreinhiartader; Þvi þeir munu Gud siaa, sagde vor blessade Endurlausnare JEsus fordum til Læresveina siña: Matth. 5. v. 8. Gud naade oss auma Adams Nidia! Vier þikunst aller meiga vera fullvisser þar um, ad oss verde til reidu eilijfrar Sælu Samastadur i Himnenum, frame fyrer Lambsens Stoole, þegar Daudeñ kvedur oss bygd wr Heimenum; Eñ þo eru marger þeir sem lijted edur eckert hyrda um, ad hafa hreint Hiarta ad geima, bæde fyrer Gude og Moñum: Eda seiged mier Brædur mijner! Hvilijkur er nu Kiærleikureñ sem Meñ audsijna vid Gud og Naungañ; hvor þo a ad framkoma af hreinu Hiarta, ecke einasta med Orde og Twngu, helldur og eiñeñ med Verke og Sañleika? 1. Joh. 3 v. 18. Æ! Eg ætla hañ sie hia allt ofmorgum mestur i Ordum, eñ miog lijtell i Krapte: Af þeim er hardt nær allstadar Hwsfyller iñañ Takmarka Christs-

Kyrkiu

Kyrkiu vor a medal sem kalla: Herra, Herra; Matth. 7. v. 21. Pad er: Bera Christi Nafn, medkieña Christi Lærdoom, og seigiast med Trwoñe umfadma Christi Forþienustu, og reida sig uppa hana til eilijfrar Saaluhiaalpar; Eñ hvort þar fiñast tiju Riettlaater i þeirre Foolkrijku Sodoma.; Gen. 18. v. 32. Hvort þad er ecke hiñ minste Hlute þess mikla fiollda christeña Maña, sem giorer Fodursens Vilja, hver ad er vor Helgan af hreinu Hiarta, og omeingadre Trw; 1. Cor. 13. v. 3. Pad sier hañ blessadur sem best þecker sijna, 2. Tim. 2. v. 19. Veit og giorla hvad med Mañenum er; Po stendur þad Ord obrygdanlega stødugt: Matth. 7. v. 20. Ad ut af Avoxtunum gieta Meñ bæde þeckt adra, og eiga lijka ad rañsaka sitt Hiarta, sijna Trw, sijna Gudrækne, hvort hun er añad eñ Hræsne; Jac. 1. v. 26. Og þad er, þvi midur! Ætlan mijn: Ad ef David mætte lijta um Stund upp wr Grøf siñe, þa munde hañ nu a vorum Døgum fiña ongvu færre eñ fordum i siñe Tijd, sem forþiene þvilijkañ Vitnisburd: Peirra Muñur er flockvære eñ Smiør, eñ hafa þo Strijd i Siñe; Peirra Ord eru mirvkare eñ Vidsmiør, eñ eru þo nakeñ Sverd: Psalm. 55. v. 22 Eda er nu ecke allmargra Vinaatta iñefaleñ i eintomes Complementum og wtvortis Fagurgala, sem ecke a helldur skyllt vid Kiærleikañ af hreinu Hiarta, eñ Reffsens Slægd vid Saudarens Einfelldne? Eru þeir nu ecke halldner mestu Meñerner, og vænlegaster til Giæfu, sem med elskulausum yferdrepskap og aludlegu Vidmoote, aan þess þeir meine hid minsta gott þar med, hræsna sem mest fyrer Hofdingiunum, leita epter Lofe af hvørs Mañs Muñe, og vilia vera allra Viner ad Orde kvednu? Eru þeir nu ecke reiknader fyrer Afglapa og vidundur Verølldar, sem framganga i Froomleika og Einfelldne, talande SANNLEIKañ UT AF HIARTA? Psalm. 15. v. 2. Gud betre vorar Tijder! Og vyrdest ad skapa i oss hreint Hiarta: Giætum þess þo christner Meñ, i Nafne DRottens giætum þess! Ad so sem Gud er sialfur SANNLEIKUREN, sa audugaste SANNLEIKANS Eignar HErra; Þvi aller hañs Eigeñlegleikar og Veiger, oll hañs Ord og Verk, eru eckert añad eñ eilijfur SANNLEIKE; Sa ædste SANNLEIKANS Elskare, hvør ed hatar Raanglæte og Lygar, eñ elskar SANNLEIKA og RIETTLÆTE; Psalm. 45. v. 8. So faa þeir og Einer ad fiña Naad fyrer hañs Heilaga Augliti, hier Tijmañlega og sijdar Eilijflega, sem laata Hiarta, Muñ og Hendur verda samtaka i þvi, ad wtvelia SANNLEIKANS Veg i ollum sijnum Athofnum.

Æ! Laatum þvi ongva Hræsne edur Yferdrepskap fiñast i voru Hiarta, nie framkoma af vorum Muñe; Sieaum til, ad vier tilbidium og elskum Gud, þioonum og þocknunst Gude i Anda og SANNLEIKA af hreinne Hiartans Alvørugiefne: 1 Joh. 4. v. 23. Sieaum til ad vier breitum vid vora Bradur, sem i Heimenum eru, og umgaungunst med þeim i Froomleika, Raadvendne og Elsku, so sem Guds Børnum þæfer; Afleggiande Lygar og Hræsne, eñ Talande og Giørande SANNLEIK-

ENN vid vorn Naunga wt af Hiarta. Eph. 4. v. 25.

Verum ætijd forsiaaler sem Hoggormar, i þvi ad varast Svikræde Syndarens ar, Vielræde Heimsens, og Araaser Andskotans og hañs Eyrendes-Reka, ætijd Vakande og Bidiande, so vier follum ecke i Freistne; Matth. 26. v. 41. Eñ gleimum þo alldrei under eins, ad audsijna oss Einfallda sem Dwfur, Ibid. Cap. 10. v. 16. Pad er, hreina af øllum Hreckium Heiptrækne og Svikum, lætande ecke yfersttijga oss hid Vonda, helldur yfervinñande þad Vonda med Goodu. Rom. 12. v. 21. Peir sem þañ Veg tala og giora SANNLEIKANN wt af Hiarta, eru dijrmæter i DRottens Auglite, hañs SANNLEIKE er þeirra Skiolldur og Veria, Psalm. 91. v. 4 Peir faa Riettlæter fyrer JEsu Blood og Orded hañs Vitnisburdar, sem oss øllum hefur Raad og SANNLEIKA afrekad, Joh. 1, v. 17. Ad rata eiñ beinañ Veg giegnum Torfærur Heimsens, og Daudans dimma Dal, iñ i þa Himnesku Jerusalem, Eilijfrar Glede og Unnnar, Psalm. 84. v. 11. Hvar ed SANNLEIKURENN, RIETTLÆTED og FRIDURENN mun kyssa hvort añad, og æ Gledeñe mun eingeñ Ender verda.

Med þessum Ypparlegu EIGENLEGLEIKUM Heilagra DRottens Pienara, var vor Blessade og Sæle Herra Biskup Mag. JON ARNASON, Lofs verdrar Miñingar, morgum framar Prijddur og Giæddur af Guds Naad og Krapte; HANN FRAMMGIECK FLECKLAUST ad so miklu leite sem hañ fyrer Guds Naad frekast orkade, og lagde hina stærstu Alud a, ad þioona sijnum Gude trwlega, frañkvæma sitt haafa Embætte verduglega, og ganga fyrer ødrum med FLECKLAUSU Frañferde aan Hneixlunar, og føgru Dygdaña Dæme i sañre Gudrækne.

HANN GIORDE RIETT, og liet øngvañ Hlut vijkia sier fra þvi, sem fyrer Gude og siñe Samvitsku visse rettast vera, og best fara, so vel i sijnum Embættesverkum, sem ødrum Sysl unum.

HANN TALADE SANNLEIKANN UT AF HIARTA og aller mattu ganga ad þvi vijsu, ad hañ gaf ætijd gudrækelegt, Einlægt, skynsamlegt og skoruglegt Ansvar, hvonær sem hañs Atkvæda var leitad; Og so sem hañ hafde Hiartanlega Andstigd a allre Hræsne og Underhyggiu, so elskade hañ og ástundade af iñstu Hiartans Alud, Froomlynde, Trygd og Sañleika bæde leint og lioost, i hvorre ægiætre edla Dygd eg voga ad seigia, ad þesse blessade Herra ætte allfaaa sijna maka; Nu, Gud giefe oss, sem eñ þa epterþreyum, ad feta i hañs føgru Dygda Footspor, ad fylgia epter hañs Gudhrædslu, Trw og Poleñmæde, og faa sijdañ ad samfagna honum og ødrum Utvølldum DRottens, i Oumrædelegum Fognude Eilijfrar Dyrdar og Sælu, a Lande lifande Maña!

Nu Epterfylger med allra færstu Ordum ad Athuga Eiñ Dijrmætañ DROTTENS PIENARA; Og hvijlijk giefens veitt Verdlaun Sooma og Farsælldar,

Glede og Blessunar, hañ fær af Myskunar-Hende Almattugs Guds ad medtaka; Ecke einasta hier i Heimenum Tijmañlega; Helldur og eiñeñ hvad mest, best og Rijkuglegast Añars Heims a Himnum uppe Eilijflega:

David vitnar i vorum Heilaga Texta,

# Ad hañ mune Bwa i Tialld-Bwd DRottens / Og stadnæmast uppa hañs Heilögu Fialle.

Þar er ongvum HErra so gott og ypparlegt, ongvum so Gledelegt og abatasamt ad þioona so sem Gude; Honum gietur ad vijsu eingeñ nockud giefed, Rom. 11. v. 35. Og hefur þvi eingeñ epter eigen Forþienan, nockurt Verdkaup hia honum ad heimta; Eñ þo er hañs Myskun og Giædska so Ogrijpanleg; Hañs Sañleiks Ord og auglijst Nadar Fyrerheit, svo oriufanleg; Ad hañ blessadur vill ongva trwverduga þiénustu olaunada vera lata: DRotteñ er Myskunsamur (seiger David Psalm. 62. v. 13. Og endurgielldur sierhvorium einum epter þvi, sem hañ hefur Verdskulldad til: Gud er ecke Ranglatur (seiger Paulus) Ebr. 6. v. 10. Þad hañ gleime ydar Giorninge, og Kiærleikans Erfide, sem þier audsijndud i hañs Nafne: Lijka so sem hiñ Riettlate Gud hefur hina stærstu Andstygd og vidbiood, a ollum þeim Leigulidum, Joh. 10. v. 12. Sem i hañs Umbode, Og andlegum Syrendagiordum, brwka Gudhrædsluna, þad er ad skilia, Guds Umbod, og þad Heilaga Embætte, hvort þo er DRottens Es. 49. v. 4. Og a þvi einasta ad Handtierast til DRottens Dijrdar, og hañs Barna Andlegrar og eilijfrar Velferdar; Sem brwka þad (seige eg) Til eigeñ Aviñings og Fiar Afla, 1. Tim. 6. v. 5. Sem hlaupa til þess ad heita Hirdarar yfer JEsu Saudum, einasta til ad eta hid feita, og klæda sig med þeirra Ullu; Eñ Saudena hirda þeir ecke um ad ala, yfer hvorium Guds Ande Vei hroopar giegnum Spamañsens Muñ: Ezech. 34. v. 3.

So hefur og eirnig hin eilijfa Giædskañ þa stærstu Elsku, og leggur hvad mestar Mætur a þa sijna andlega Þienara, sem hafa hreint Hiartalag, og leggia hina mestu Alud a ad sijna sijnum Gude hina trwverdugustu Þioonustu; Ad bera hina Elskufullustu Umsorgun, fyrer sijnum tiltrwudum Sofnudum; so þeir fai fellt sem flesta af þeim, hinum saña Salnaña Brwdguma JEsu i Hendur, svo sem skijrlijfar Meyar, 1. Cor. 11. v. 4. So þeir fai auñed hvad flestar Saaler til Himnarijkes, og eilijfrar Dyrdar.

Þvilijker munu bwa i Tiallд-Bwd DRottens; Þad er, hañs strijdande Christne hier i Heime, sem med ollum Riette ma vid Tiallд-Bwd lijkiast þess vegna.

1 Ad hun er dock asijndum hid ytra og audvyrdeleg fyrer Heimenum. Lofkvæd. 1. v. 5. Eñ þo nærsta lysteleg hid iñra; saker þeirra Dijrdlegu Hluta, sem i heñe

eru

eru predikader og handtierader, Psalm. 87. v. 3. Og øllum þeim sem riettelega þiggia vilia, til Helgunar, Riettlætes og eilijfrar Endurlausnar frambodner og meddeilder.

2 Þess vegna: Ad hennar andleger Jnbyggendur, eru hier a Jordunne Gester og Framande, og leita epter einu Fødurlande; Ebr. 11. v. 14. Jaa, Laata sig af Hiarta langa i sanre Trw og falslausre Gudrækne, medan þeir eru i Tialld-Bwd þessa daudlega Lijkama 2. Cor. 5. v. 1. & 2. Epter Bygging af Gude uppbygdre; Epter þvi Hwse, sem ei er med Høndum giort, þad æfenlegt er a Himnum.

J þessare sinne Heilagre Kyrkiu og andlegre Tialld-Bwd; Hverrar Port hinn eilijfe Myskunsemdanna Fader elskar fram yfer allar Tialld-Bwder, Psalm. 87. v. 2. Lætur hann blessadur sijna trwlynda Þienara Bwa i Naad og Blessan, Hesd og Heidre: Þeir selia sig hvad dijrast, til ad audsijna sijnum Gude þa þægeleguſtu Þionustu og dyggvustu Trwmensku; Gud lætur þad i annann Stad, vera sijna Glede af øllu Hiarta, ad giora þeim Gott, Jer. 32. v. 41. Ad leggia yfer þa sijna rijkuglega Blessan, og giora þa sijdare Myskun vid þa, stærre enn hina fyrre; Jaa, Giefa þeim alla Hlute rijkuglega til notkunar: 1. Tim. 6. v. 17. Þegeinn andlegur Ioseph lætur þad ecke vanta, ad hegda sier forsiallega og Gudrækelega bæde i Guds Hwse, hvar ad er Søfnudur lifanda Guds, ibid. 3 v. 15. So og einnenn i sijnu eigenn; Þa bregdst þad ecke, ad þar verdur ydugleg Guds Blessan yfer øllu þvi hann hefur. Gen. 39. v. 5.

Umm þann fagra Dygdanna Veg, vid hvorn einn trwlyndur Guds Þienare helldur sier af øllu Hiarta, leider DRottenn hann fra einu Tignar-Sæte til annars: Þa Ølldunga sem vel Forstanda, skipar Gud ecke einasta ødrum ad hallda; Helldur og einnenn vill hann sialfur, þa Myskunsamlega meta fyrer sijnu Naadar Auglite, tvæfalldlegs Heidurs verduga: 1. Tim. 5. v. 17. Þa sem eru trwer i litlu, setur hann yfer meira: Þeim sem fara vel med eitt Pund, fær hann i Hendur fleire; Matth. 25. v. 20. 22. 23. Jaa, hann styrker þa med sijnum Krapte, blessar þa af øllum Attum sijns Herradæmes, leider þa epter sijnu Raade, medtekur þa endelega til Æru. Psalm. 73. v. 24.

Nær þeir hafa epter Fødurlegum Naadar-Vilia og alvijsre Raadstofun DRottens, wtþioonad sijna Tijd i hans Vijngarde hier i Heime, og su Stund er komenn ad þeir skulu safnast til sinna Fedra, Num. 20. v. 24. 26. Og færast af Helgedoomsens Skrwda; Leider Fader Myskunsemdanna þa, a þægelegre Naadar, og gledelegre Luckunar-Stund, fyrer sætann og Saaluhialplegann Dauda ur hinne strijdande Christne hier i Heime, til hinnar Sigre hroosande a Himnum uppe; Hvar ad er þad heilaga Fiall, a hvoriu aller dijrmæter DRottens Þienarar (so sem David umntalar i vorum H. Texta) munu stadnæmast aan Enda, berande ur bijtum Omælanlega Þijngd eilijfrar Dijrdar og Sælu: Daudenn aptur likur ad vijsu fyrer

 þeim

þeim Dyrum Jardneskrar Vegsemdar i Heimenum ; Þvi hversu stoora Dijrd sem eiñ hefur haft medañ honum var unt ad lifa , þa mun eckert af heñe med honum fara , þegar hañ a ad deyia ; Psalm. 49. v. 18. Eñ Gud giører þau bestu Bijte vid sijna blessada Þienara: Hañ opnar fyrer þeim i þeirra Andlæte , Dyr Ovisñanlegrar , Oflefkadrar og O-umskiptelegrar Æru og Vegsemdar i Himnenum ; 1. Pet. 1. v. 4. Þeir munu stadnæmast uppa DRottens heilaga Fialle ; Þad er , a þvi Himneska Zions Fialle eilijfs Fridar og Fagnadar , Hvert þeir Endurkeiptu DRottens munu safnast med gledeleguſtu Fagnadar Kiæte , og eylijf Glede mun verda yfer þeirra Hofdum , Es. 35. v. 10. Eñ Hrigd oll og Sorg hlytur i burt ad vijkia : J þeirre Himnesku Jerusalem oumrædelegrar Sælu og Ununar ; Hvar ed aller trwlynder DRottens Þienarar , munu þvi fegre skijna og Liooma med fegurstu Dijrdar og Vegsemdar Glansa so sem Sool i Rijke þeirra Fodurs eilijflega ; Matth. 13. v. 43. Sem þeir hafa hier i Heime stærre Alud og Astundan a þad lagt, ad þioona sijnum Gude rettelega , og snua morgum frað Syndunum , Mal. 2. v. 6. . Þeir hafa kappkostad , ad fiñast trwer i DRottens Hwse hier i Heimenum tijmanlega ; DRotteñ sialfur medtekur þa til hiñar ædstu Farsælldar , Farsælustu Dijrdar , dijrdleguſtu Ununar, og ununarsamleguſtu Vistarveru i sijnu Hwse a Himnum uppe eilijflega ; Þeir munu vera frame fyrer Stoole Guds og þioona honum Dag og Noott i hañs Mustere ; Og sa uppa Stoolnum situr mun bwa yfer þeim ; Ja, þerra allañ Graat af þeirra Augum. Ap. 7. v. 15. 17. Þeir munu stadnæmast uppa DRottens heilaga Fialle : Þañ eilijfa Fognud sem þeir hafa þa eitt siñ odlast , mun eingeñ geta fra þeim teked ; Joh. 16. v. 22. Þar endast allt þeirra stundlegt Mootlæte med eilijfre Glede. Ap. 21. v. 4. Allt þeirra stundlegt Erfide , Ibid. 14. v. 13. J JEsu Vijngarde med eilijfre Hvijld i JEsu forklarudum dijrdar Fadme ; Allt þeirra Stundlegt Strijd i Heimenum , med eilijfre og Yndesfulluſtu Sigurviñing i Himnenum Cap. 7. v. 9. Þar mun eingeñ Ovinur framar areita ; Eckert Mootlæte angra , eingeñ Daude skielfa ; Þar munu aller Guds Utvallder mettast af JEsu yndesfulluſtu Naalægd og Elsku ; Glediast i JEsu omælanlegu Vegsemd og Sælu , og sijngia eilijft Hosiaña frame fyrer hañs Auglite an Enda.

Med hvad ypparlegum Naadareñar og fogrum Luckuñar Giædum , ad hiñ Naad uge Gud hafe bijgaſad vorn nu i Gude Sæla og blessada Herra Biskup , medañ hañ lifde hier i Heimenum , er allareidu nockud umtalad i hañs Loflegu Lijfs-Sogu, og sierhverium maa þar um alkuñugt vera , sem til hañs þecktu i fraa Barndoome, og af honum spurt hafa ; Hvorsu DRotteñ hefur Daasamlega i fraa Moodurlijfe Utvaled hañ til sijns Þienara , og Upphafed hañ hartnær , fraa þeirre lægstu til þeirrar hædstu Tignar-Troppu i Andlegre Kieñevallds-Stiett , iñañ Talldbwdar siñar strijdande christne i þessu vorn fatæka Fodur-Lande ; Og svo sem þesse blessade

Guds

Guds Vinur lagde hina stærstu alud og Kostgiæfne a, ad finast sijnum Gude, þvi þeckare og trwfastare og hans Christne þvi þarflegre og nytsamlegre i sijnu H: Embætte, sem han lifde leingur; So hefur og einen hin eilijfa Giædskan ecke einasta med Sooma og Farsælld, framleidt han i Heimenum fra eine Æru til annarar; helldur og eirnen med Fride og Glede a andlegum Eliæ Vagne farsællegs og Saaluhiaalplegs Vidskilnadar, fært han og flutt ur sine strijdande Kyrkiu i Heimenum, til þeirrar Sigre-hroosande i Himnenum, til þeirrar ædstu Æru, ununarsamlegustu Farsælldar, og eilijfrar Glede: Þad stoora Erfide sem han lagde a sig til ad framkvæma sier tiltrwud heilog og ypparleg Embætte, til Guds Dijrdar og hans Safnadar velferdar, er nu endad med yndesfullustu Hvijld og eilijfre Roo i Hende DRottens; hvar eingen Pijna kan nu framar hans Dijrdlegu Saal ad snerta; Þau allmørgu Taar og Andvarpaner, sem han i sijnum audmiukum Bænum uthellte fyrer sijns JEsu Footum hier i Heimenum, eru nu og verda ad eilijfu þerrud af hans Augum i Himnenum; Hvar ed hans blessud Saal mun um Tijmalausa Eilijfd dryckiast af Straumnum rijkuglegustu Blessunar og sætustu Vel-Lystinga:

Fyrer þad ypparlega Hefdar-Sæte, til hvørs Gud hafde han Utvaled, ad Dæma yfer Einglum sina Safnada hier i Heime; Hefur han nu ødlast vegsamlegasta Heidurs og fullkomnustu Farsælldar Sæte, og Samfielag medal margfiølida margra Þusund Eingla, og i Samkundu þeirra Frumgietnu, sem a Himnum Uppskrifader eru: Svo sem han lifde i DRottens Otta og Vingan Gudrækelega; Svo sem han Deyde i DRottens Fride og Blessan Saaluhiaalplega; Svo lifer han nu og einen fyrer DRottens Auglite, i DRottens Dijrdar-Rijke i ædstu Vegsemd og Oumrædelegre Glede Eilijflega!

## Eya værum vier þar /

En þu, O sanne Daudans Sigrare! og Dyrdlegaste Lijfsens-Furste DRotten JEsu! þu sem Daudan Deyande Deyddir, en Lijfed og Odaudlegleikan Upprijsande i Lioos leiddir: 2. Tim. 1. v. 10. Gief oss Krapt og Vilia til ad þioona þier trwlega i Heilagleika og Riettlæte, Æ svo leinge vier lifum; Veit oss og Naad og Styrkleika, svo vier faaum hallded oss fast vid þijnar Myskunar-Fætur, med Trwne og Bænene, þegar vier eigum ad Deyia! Un oss svo ad epterfylgia þeirra Trw og Þolenmæde, sem a undan oss eru Innsafnader i Vindene þina Utvølldu a Himnum; Ad vier med þeim, og þeir med oss, mættum aller lifa hiaa þier, glediast i þier, og mettast af þine Dyrdarfullustu Sioon og Skodun, i þeirre Sælune sem þu hefur Tilbwed þeim er þig Elska.

AMEN, O JESU! AMEN.

GRAVISSIMUM PATRIÆ VULNUS,
VIRI
Summe Venerabilis & Amplisſimi,

# MAG: JOHANNIS ARNÆI.

Primum
Trivialis Scholæ Holenſis in Boreali Islandiæ plaga,
MODERATORIS Eruditisſimi;

Dein,
Eccleſiæ Stadenſis PASTORIS & Vicinarum
PRÆPOSITI Vigilantisſimi.

Nunc demum
Diœceſeos Skalholltenſis
SUPERINTENDENTIS MERITISSIMI,
DICHOTOMIAN
Ipſi qvidem Placidisſimam,
Sed
VIDUÆ Superſtiti, MATRONÆ Splendidisſimæ,
Triſtisſimam,
Omnibusqve veræ pietatis Sinceris Cultoribus
toto ævo deplorandam

Lugubri modulamine
ita exprimit
VIDUÆ mœſtisſimæ
Devinctisſimus Cliens.

BERNO IOHANNIS.

Ecqvid

Ecqvid in Aonio conantur vertice Musæ?
Qvo nunc Pieridum turba Canora ruit?
Melpomene, Æschyleis qvid nunc induta cothurnis
Æthera, luctifico murmure mæsta feris?
Qvid tibi jam tragicos fas est assumere vultus?
Qvid vel nigra, tuo corpore, vela geris?
Dic age, caussa tui qvæ nunc horrenda doloris?
Tristia qvo laceres, ungvibus ora tuis?
Tu ne qvære meos stultus cognoscere Casus,
Increscunt fando vulnera nostra magis.
Sed tamen ut pandam prægnantis Semina fletus,
Lauriferi mecum montis ad arva veni.
Ecce nemus vastum, nos qvod Grynæus Apollo
Sacratum jussit, semper habere sibi:
Protulit hoc varios flores dulcedine gratos,
Et virgulta suis ambitiosa comis.
Ubera præ reliqvis porrexit lactea ficus,
Prole & cærulea semper onusta fuit.
Iure suo Dominam frugum numerosa caterva
Dixerat, atqve ipsi Præstitit omne decus.
Ante dies paucos visu teterrimus, ecce!
Nostra senex diro contigit arva pede,
Huic facies rugosa, cutis pallente colore,
Hispidus & sparsis ibat in ora comis.
Terribilis dextrâ falcem qvassabat acutam,
Pulsavitqve humeros Cressa Pharetra graves.
Substitit, & torvis sylvam lustrabat ocellis,
Et ferrum trita cote novabat iners.
Dum sic tartareus mentem furor occupat, inde
Præcipitat celerem, qvâ datur ire, gradum:
Nec Prius hunc sistit, qvam se nitidissima ficus
Obtulit, in medio conspicienda solo.
Protinus Armenium cornu lunabat, & illo,
Fulmineum torsit missile utraqve manu.
Pennatum medias telum volitabat in auras,
Et ficus imo pectore triste stetit,
Illa sed ingenti percepto vulnere anhelans
Palluit, sævus luctus in ora ruit,

Tum cecidere comæ casum minitabat et ipsa:
Sed paullum duro cespite nixa stetit.
Tum Senior validis falcem radicibus aptat
Fortiter & crebris ictibus usqve ferit.
Succubuit, rupto tandem firmamine, ficus
Et casu tremulo verberat arva sonans.
Hæc ego fata qveror, hinc mœsto pectore noctes
Insomnes duco, nec datur ulla qvies.
Hinc numerosa seges, fusco signata colore,
Cernitur: Hinc pratis gratia nulla manet.
Ach! Qvid Diva mones? Duris sermonibus aures
Pulsas, et pectus, sæva, dolore premis,
Ah! memorare jubes funestum ab sede Tonantis,
Fulmen qvassatum, signaqve plena necis,
Cum Thulen, radiante ferox privavit honore,
Mors, atqve obscuris induit usqve notis.
Nam tua si pietas, Mater, pariterqve sororum
Splendida in assiduas Lumina solvit aqvas,
Si casu nitidi tabescunt corpora ligni,
Tempora si lacrymas, fluminis Instar, agunt:
Qvid reticere est fas nobis? Qvidve æthera sicco
Lumine conspicimus? Qvidve stuporis inest?
Eximium Patriæ Decus, & spes optima nostri,
Præsul IOHANNES, ipse Magister abest.
Ipse Magister abest, tristes concurrite cives,
Et mecum Tragicos ingeminate sonos.
Ingeminate sonos, palmis qvassate lacertos,
Parcere nec lacrymis, vulnera tanta sinunt,
Ereptum video sidus borealibus oris,
Sidus, qvo Regio nostra superba fuit.
Qvid dicam? Lachesis, nulli ne stamina nectis,
Fida satis vitæ? Aut Atropos ense feris?
Qvem sua nunc pietas, qvem candor dulcis, & alma
Virtus ê vestrâ vindicet inde manu?
Eximium pietate virum, candore nitentem,
Conspicimus vestris succubuisse dolis.
Olim cui roseo Sapientia ab ore fluebat,
Ejus jam fandi nescia Lingva riget,

Qvæ prius in Dominei tendebant Lumina cœtus,
  Hev! lucem nuſqvam jam tenebrata vident.
Qvæ ſemper miſerûm patuerunt vocibus aures,
  Admittunt clauſæ, nullius, ecce, preces.
Qvæ manus indigum opis toties ſaturavit Acoeten,
  Nunc immota tibi munera nulla dabit.
O triſtes ſubitasqve vices! O mortis acerba,
  Fulmina! qvæ nobis, te eripuere, Pater.
Proſeqvitur gemitu cineres caſtisſima Conjux,
  Flumine per madidas uſqve cadente genas,
Te dolet Exemptum Clerus; juvenesqve ſenesqve,
  Te lugent: cunctis mors tua triſtis erat.
Hoc unum mæſtis nobis ſolatia donat,
  Qvod non te penitus ſcimus abesſe, PATER,
Vivis adhuc, Divûm felicia tecta ſubiſti,
  Ver ubi perpetuum, & tu ſine nube dies
Æternos viſurus; jo, te gaudia, PRÆSUL,
  Summa manent, nullo non agitanda Die.
Vives in noſtro ſemper venerabilis ore,
  Gloria Fama decus, vivet in orbe tuum.

Obitum Luctuosissimum,

Verius

Abitum ad Superos Beatissimum,

VIRI

AMPLISSIMI, NOBILISSIMI ET SUMME VENERABILIS,

# DN. MAG. JOHANNIS ARNÆI,

Dum Vixit,

DIOECESEOS SKALHOLTINÆ EPISCOPI,

Rudi hôc lessu Trochaicô,

Ad exeqvias, qvæ factæ sunt

Die XIX. Februarii, Anni M. DCC. XLIII.

Cum, redditâ cælo animâ, exuviæ VIRI longè desideratissimi Conditorio suo, in Æde Divi Petri Apostoli, qvæ est Skalholtiæ, structo, inter mœrores & suspiria bonorum piorumqve omnium, decente funeris pompâ inferrentur,

deflent

SCHOLÆ SKALHOLTINÆ

ALUMNI.

VErberat qvis alta clamor Cœlitum Palatia?
Flebilis qvis ejulatus dispulit ſolennia?
Cuncta qvare lugubrî nunc obteguntur ſtragulô?
Undè Titan implicatur nubila caligine?
Subtrahit mundoqve lucem tectus atro turbine?
Ora Phæbe cur tegis? Vel cur lyram tu projicis?
Tuve luſus cur jocoſos negligis, Polymnia?
Cur, Thalia, nunc capillos vellis ægra fulgidos?
Ah! Deæ, Parnasſium vos incolentes verticem,
Unde fletu veſtra ſedes, qvœſumus, ſuccenditur?
Qvis ferales hos dolores elicit cum planctibus?
Qvove ſpectant? curve tantas ducitis Threnodias?
Nos, ſodales, excolentes mentem honeſtis artibus,
Et novem Pindi ſororum commorantes atriis,
Qvid rogamus, undè tantis æſtuent hi luctibus?
Res monet, qvod iſte motus fit minus ſuperfluus;
Fata nobis cum ſevera ſuſtuliſſent, Proh dolor!
Grande lumen et decorem: Summa noſtræ Dignitas
Patriæ pertranſiit; Qvæ ſpes Piis firmisſima!
Magne Noſter, Congemamus! jam Pater, dum vivere
Spes erat diutius Te, qvò receſſiſti, Optime,
Præſul, arce collocatus qvi fuiſti Altisſimi,
Pervigil, cui cura Chriſti qvondàm ovilis credita eſt?
Deſinis cur nos juvare dulcibus ſermonibus?
Ex tuo pendere qvare aut ore gratô denegas?
Ergo Fratres, ſi Lycei deſtitui nunc ſumus
Patre, noſtri et fructuoſo commodi fundamine;
Ampliùs cur os rigantes continèmus guttulas?
(Lacrymîs ſed caſus iſte non poteſt plorarier,
Congruis noſtræ ruinæ, qveſtubus vel, Harmodî,
Cantilenis aut levari) Qvum minîs hùc fulminans
Jôva mox vitæ ſorores protrahentes ſtamina
Convocavit, atqve, Febres: fila, dixit, ſcindite,
Et mitratum ARNÆUM ab aurâ letho acerbo mergite;
Ne diutius Scholis & ædibus præſit ſacris!
Ah Iehova! Tanta nobis intuliſti vulnera,
Ut ſuperſtites miſellos atra reddas funera,
Atqve noſtra eô palæſtra mox vacillet turbine;

Qvanta, qvalis, hev! ruina jam Lyceo proxima?
Ille, planctu, nam, Piorum, docta clausit lumina,
Qvi Patronum se benignum, se columnam præstitit
Ausibus nostris honestis; undè nunc conamina,
Nostra, mœrore, immó acerbis decidunt plangoribus.
Ah! qvis angor, ah! qverela, cur Pater discesserit!
At sodales, invidere non pium; ora tergite!
Aula cœlestis vocavit, gemmea ac palatia,
Qveîs IOHANNES nunc refulget, Inclytus Skalholtiæ.
Præsul olim: ARNÆUS astrûm jam tenet pomœria;
Et Piis adjunctus illic summa captat gaudia.
Macte gloriâ esto! amictu nunc renidens aureo:
Nil habet mundus molestus, nil dat absqve futili,
Vanitate, qvi laborum frustrat omnes præmiis:
Sed Tibi hæc mors est brabeum, cælicæqve janua,
Portæ, ubi Tu svavitatis imbuêris nectare;
Salve in æternum, Beate Præsul, expers anxii!
Tu coruscus in piorum jam triumphas atriis;
Tu Poli fulvam coronam sancte gestas Incola;
Tuqve morbos, et rapacis dira calcas fulmina
Mortis, Secla in ævitatis gestiens cum Angelis,
Inqve Salvatoris ulnis acqviescens molliter.
Corda, Tu Deus, tuorum subleva ad cœlestia;
Ut Salutari ad Patronum nos vehamur tempore,
Non caduca inter Beatos sentientes gaudia.

Mortem

Mortem
VIRI
NOBILISSIMI, AMPLISSIMI, DOCTIS-
SIMI,

# DN. MAG. JOHANNIS ARNÆ FILII,

DIOECESEOS SKALHOLTINÆ EPISCOPI
VIGILANTISSIMI,
Maecenatis sui ætatem desideratissimi,

Qvamvis, si ætatem provectam spectes, non immaturam,
Qvamvis ipsi Lucrosissimam ac Laetissimam,
tamen,
Ob ingentia cum tanto VIRO amissa
Ecclesiæ pariter ac Reipublicae Literariæ
commoda,
Omnibus
Sincerae Pietatis, Veræ Virtutis
Atqve Infucatae Eruditionis Candidis aestimatoribus
Tristissimam ac Luctuosissimam,

Hac Threnodia proseqvitur,
Ipsius B. memoriam,
Viduæqve Nobilissimæ
integerrimam virtutem
Perpetua observantia colens
EINARUS IOHANNIS
Scholæ Skalholtensis tunc Con-RECTOR,
nunc ejusdem RECTOR.

HOrret hyems; gelidis fœdans Arctoa pruinis,
Horrida cùm niveos per tractus fama vagatur,
Terræ, cui fragilis glacies nomen dedit olim;
Fama, inqvam, nobis fieri qva tristior ulla
Non potuit; jacet, ecce! jacet validissima templi
Skalholtensis, erit qvæ sero erecta columna.
Namqve auras litui gestator Nobilis Heros,
Qvi fuit arce Dei, vigilans, pius, ecce! reliqvit,
Instructus virtute omni, qvæ rite Ministrum!
Christicolam deceat: cecidit, dolor! immo IOHANNES
In terræ matris gremium cecidit, sub et umbras:
ARNÆUS cecidit, decus et solamina nostræ
Gentis hyperboreæ. Cæso duce disperguntur
Agmina dumivagi gregis; Et dispersa per umbras,
Per vastos saltus, perqve invia, perqve paludes,
Consilii expertes turbæ, sine rege vagantur
Præda feris lanianda lupis, ni cura resistat
Christe Tua, O! miseris qvi semper porrigis almam
Auxiliatricem dextram, qvâ cuncta gubernas,
Cunctaqve metiris, qvâ cuncta potesqve parasqve.
Hev miseris! Tantus jam clausit lumina Præsul,
Qvantum vix olim Megalandra Islandia vidit
Magnanimos inter mystas, qvos infula texit;
Officii seu respicias pia jussa severi
Præsulis, et partes, qvas mente ardente subibat:
Seu indefessos, immo Herculeosqve labores,
Sustinuit qvos, dum fluvios, montesqve superbos,
Obsita qvêis Patria est, isthmos, et inhospita tesqva
Vectus eqvo superat, multos provectus in annos.
Et plura ut taceam, nunc tangere sufficit unum:
Scilicet ut libros, qvos partim fecerat ipse,
Partim alii, in Patriæ summos (qvod novimus) usus
Ediderit multos, magno sumptu, atqve labore.
Qvos inter ceu stella micat pulcherrimus omnes
Parrus mole Liber, sed magnus pondere rerum;
Sed tamen et facilis: merito ut qvis dicere posit
Certare heic rerum cùm pondere dexteritatem.
Huncce CATECHISMUM vulgò appellare solemus,

Lac Pueris logicum, et rudibus doctrina salubris:
Qvem tamen æqvè alios multum legisse juvabit.
Qvam bene Thulicolis fuerit Liber ille receptus,
Testis erit desiderium, dum sæpius intra
Haud multos annos iterumqve iterumqve recusum
Vidimus, et multos hodie expectare videmus.
Plures prætereo, Musis et Apolline digni
Sint licet, et sacrata alii penetralia pandant,
Ne nimis excrescant, volui qvæ tangere paucis.
Sed Te, Mœcenas, sed Te, Doctissime Præsul;
Virtutum exemplar, Patriæ, Laus, Gloria, Sidus,
Qværimus, hev! frustra, nobisqve dolemus ademptum.
Ast simul erigimur, qvod Te versarier inter
Sanctos cœlicolas, qvod Te sine fine beatum,
Numinis optato aspectu sine fine fruentem,
Tristibus ereptum curis, mundiqve tenebris,
Novimus. O! IEsu, cui semper cura Tuorum,
IEsu, qvi semper miseris succurrere nôsti,
Aspice palantes nos, et custode vacantes,
Collige dispersos, dejectasqve erige mentes,
Ferqve sinu infirmos, acceptaqve vulnera sana.
Deniqve qvo Noster, qvo Tu prius, optime Pastor,
Ascendisti, omnesqve Tui, cum clausula vitæ
Imponenda venit tandem, nos evehe, qvæso.

Einfallt eñ þo Hugheillt

# Næktar=Merke,

Vid Framlidnar Mollder

Þess

Blessada og nu i Gude Sætlega

Burt-Sofnada Herra,

# MAG. Jons Arna Sonar

Fordum Biskups yfer Skaalhollts-Stipte

J nockrum Samstædum Auglijst

Af hans Foosturs-

Einum Elskande Syne.

Melod

Melod. Sæler eru þeir aller nu, etc.

I.

HRigdar til-Efne i Heime hier, harla margt jafnañ
vyrdest mier, ef slijkt vel adgiætt være; Eñ hitt
miøg fatt sem gledur Gied, Giaalijfed ecke fær þad
sied, af þvi svo Avort fære; Avi! Hvad er þo Æfe Mañs,
(1) añad eñ kalldur Sorgar-Dans, og Taara-Tijme ri-
ettur, Hørmunga Vetur, Hraknings-Noott, hverfull Sk-
ugge sem lijdur skioott, med Eymder otal settur?

(1) Syr. 40. v. 1. 2. 3.

2.

(1) Sem Vatn Ostijflad aller Meñ, i Jdur Jardar
hverfa señ, hvert vilia edur ecke; Daudans skamtadañ Ski-
erf og Skaal, Skaparanum þa þiker Maal, skyldt er ad
Skiepnañ drecke; (2) Yfer Lijfs-Takmark eingeñ maa,
einu Foot-Spore leingra gaa; (3) Asett er oss ad Deyia:
(4) Eflaust Glæpaña Gialld þad er; (5) Þvi giørvøll
Saal sem syndgast hier, i Heliu hun skal þreyia.

(1) 2. Sam. 14. v. 14. (2) Job. 14. v. 5. (3) Ebr. 9. v. 27 (4) Rom. 6, 23. (5) Ezech. 18. v. 4.

3.

(1) Sæler eru þo (Andeñ tier) i DRottne sem burt sof-
na hier, fraa Heims illum Osooma; Saaler þeirra uñ
Eilijf Ar, øllu fegre eñ Sooleñ klaar, hiaa Lambsens Thro-
one liooma; (2) Loths Kviñu hafa ecke Art, argrar So-
domæ sakna spart; (3) Ei helldur aptur kieppa, med Js-
rael i Ægypten, aum vyrdest þeim sw Sæmd og klien, þar
hærstu Haatign hreppa.

(1) Apoc. 14. v. 13. (2) Gen. 19 v. 26. (3) Num. 14. v. 3.

4.

(1) Hreidur Dioflaña Heimur hier, (2) i Hrydiur Lasta
søckver sier, vesnande Dag fraa Deige; Þvi er ei Kin þo
Kveinstaf siñ (3) Christs Børn sende i Himeniñ, ad hi-
edañ hallda meige: (4) Jñra Baratta og Ytra Strijd,

(1) Apoc. 18. v. 2. (2) 1. Joh. 5. v. 19 (3) Phil. 1. v. 23. (4) 2. Cor. 7. v. 5

(5) Rom. 8. v. 22.

allmargra leinger Sorgar-Tijd, og hvad fleira vill ama; (5) Oll Skiepnañ stynur yfred hartt, aasamt oss vænter harla braatt, epter Lausn vors Lijkama.

5.

(1) 2. Reg. 2. v. 12. (2) Luc. 16. v. 22.

Fraa ollu þessu er nu frij, iñleiddur Himna Sælu i, Biskup Skaalhollts blessadur, aadur Magister Arna son, ad riettu Heite nefndur Jon, eirn trwr Guds Umbods-Madur: (1) Elldlega Hesta Eingla Her, Israels spente Vagn fyrer, Saal hañs ur Heliu ad sækia (2) Abrahams Fadme Umvafiñ, Uñusta jafnañ lijtur siñ, hvers Villd ried Hlijdeñ rækia.

6.

(1) Dan. 12. v. 3. (2) Sap. 3. v. 1. (3) Luc. 20. v. 36. (4) Psal. 30. v. 12. (5) Apoc. 19. v. 8.

(1) Sem Stiørnur Himens Helgur hañ, i hærstum lioomar Sælu-Rañ, Sañleiks-Veg sem hier kiende: (2) Ondeñ aan Pijnu (3) Einglum lijk, af skodun Dijrdar mett og rijk, hvijlest i DRottens Hende: Harma-Taar sem wthella ried, Himneskre Glede launast med, a lifande Mañalande; (4) Hañs Sorgar-Seckur sliteñ er, (5) Sylke Riettlætes hvijtt nu ber, hafeñ ur Hrygdar-Stande.

7.

(1) Rom. 12. v. 7. (2) Jac. 5. v. 20. (3) Act. 20. v. 27. (4) Joh. 17 v 12 (5) Ps. 23. v. 2. (6) Matth. 13. v. 52.

(1) Embætted fyrer utañ Prett, ollu freinur stundade riett, Hoilur Pioon Herra sijnum; Gegnum Lijfs-Hættur Tioon og Taal, Trwlyndur marga leidde Saal, (2) fra Eymd og andar Pijnum; (3) Allt DRottens Raad andbyrte fws, eingum glatande sem JEsus; (4) Hiørd þa sem hier nam fæda, (5) ad ferskum Vøtnum færde tijtt; (6) Frambar gamallt og lijka nytt, Vanfært best villde græda.

8.

(1) Ezech. 36. v. 16. (2) Matth. 13. v. 46. (3) Ebr. 11. 25.

(1) Fallvolltu Hoole hiellt sier fraa, (2) Himneska Perlu gyrntest aa, Glis stundlegt gaf fyrer hana; (3) Kost hañ þvi fremur kaus hañ sier, med christnum lijda þvij-

nganer, eñ Gøtu Glæpa ad ana; (4) Sijna Saal spara sinte sijst, svo heñe biargad feinge vijst, fraa aumu Andar-Morde; (5) Allt matte Preck i Eymda-Vist, avañ þar med siñ JEsum Christ, epter Guds eigeñ Orde.

(4) Matth. 10. v. 39.
(5) Phil. 3. v. 7.

9.

Kieñemeñ vanda villde best (1) Vijngardur Christs svo bloomgadest, hvern hier uñ hyrda ætte; (2) Mustere DRottens byggia baud (3) Bæle Ræningia (prijddur Aud) Hws þau sijst hitta mætte; Ahyggiu Skoolans eiñig bar, Ydkan Book Menta jook og þar, Uñvondun einga sparde; Hatande lrida Heimsens prackt (4) Heidvyrda Breytne took i Ackt, a sijnum eigeñ Garde.

(1) Es. 5. v. 1. seq.
(2) Hagg. 1. v. 8
(3) Luc. 19. v. 46.
(4) 1. Tim. 3. v. 12.

10.

(1) Lausnarans Skoola lærde i, Lijtelætid og Hoogværd frij, Vitzmuna vel so gæde; Ærugyrnd illa varast vañ, Virding þott DRotteñ sæmde hañ, ædstre a Jsa-Laade; Mañgreinar Alit matte eckert, med Røgsemd allre dæmdi bert, hvern sem forþienad hafde; Hnecker Guds Dijrdar hier af sneid, helldur Oskunda siaalfur leid; Vond Mæl sijst Flækium vafde.

(1) Matth. 11. v. 29.

11.

(1) Næringa siñ i Hendlan hreiñ, hañ ærsældest ei nockurn eiñ; Guds Laan vel giørde rækia: An Þarfa sijdst Uppsvarslade, Okrad forsmaade jafnañ Fie, fraleitur Feril Klækia; Sañvoludum medbijtte best, (2) Braud sitt hwngrudum tærde mest, uñ alla Æfe-Daga; (3) Samuels maka þeñañ þvi, þarf eingeñ Madur Heime i, fyrer Raangt med riettu klaga.

(1) 1. Tess. 4. v. 6.
(2) Es. 58. v 10.
(3) 1. Sam. 12. v. 3. 4.

12.

Allt þad gott sem hañ ødrum hiet, alldrig ur skordum ganga liet, opt þa Trygd merkia mætte, eins þo fullyrdte ecke ort, eingu ad sijdur var þad giort, hver hellst i Hlut

 sem

(1) Ps. 15. vid: totum Psalmum.

sem ætte; (1) Algeingt Laun-Smiadur Allgd med, Andstygd banvæna hallda ried, miøg fra Vakmælge biten; Høfdingia slijkum hæfde þvi, a Herrans Fialle bwa frij, hvar Liooma Guds fær liten.

13.

(1) Prov. 22. v. 1.
(2) Luc. 19. v. 20.
(3) 1. Pet. 4. v. 10.

Lærdoomur hans og Lysta Safn, Lijdnum afrekar veglegt Nafn, (1) betra en Gulled biarta; Skrif þau sem epter skillde hier, skijrt bera Vitne fremur mier, ad bæda mans byggia Parta: (2) Lied Pund ei fool sem latur Dioon, Lofs verdur Biskup Herra JON, (3) samchristnum þar med þiente, einig Gæfudum utan Stans, æbwendunum þessa Lands, til Epterbreitnis bente.

14.

(1) Matth. 5. v. 16.
(2) Act. 20. v. 28.

Øll þau Dygdaña Dæme ber, sem DRottens Vinur gaf af sier, oflaugt mun upp ad reikna; En þad tilgreina eitt mier lijst, er hverium christnum soomer vijst, (1) Trw sijna med ad teikna; Ofdrickin Syndar Illsku Viel, ætijd fordadest harla vel; Sparsemdar Speigell þesse, 2. Fyrermyndan var furdu good, Frelsarans Endurkeiptre Þiood, framar en finst i Vesse.

15.

(1) Matth. 25. v. 28. Cap. 20. v. 12.
(2) 25. v. 7.
(3) 1. Cor. 2. v. 9.
(4) 2. Tim. 2. v. 3.

1. Fyrer Tryggva Stioorn i Tæra Dal, tregdulaust fær i Himna-Sal, eilijft Sælar Jndæle; Hyte Dagsens sem herken bar, hønum þa Vegsemd afrekar, sem eingen Madur mæle; 2. Sin Trwar-Lampa tendra ried, traustum Fim Meyium ædur med; 3. Þvi ødlast Umbun frijda; 4. Goodre Varættu bardest hier, Blood-Merkium JEsu Christs under; Þess vegna þverrar Strijda.

16.

(1) Zach. 13. v. 7.

Oh Skalhollts-Stiptes auma Hiørd! 1. Offtæke Daudans grim og hørd, Hyrder þin losted hefur: Jafningia hans i Trygd og Trw, traudt hier a Lande finur þu,

